# ÁGRIP

AF

# ÆFISÖGU

## Dr. MARTEINS LÚTERS,

samið

af

**J. Árnasyni.**

Kostar innbundið 48 skildinga.

**Reykjavík,**

Prentað í prentsmiðju Íslands, á kostnað E. Jónsonar.

**1852.**

**B**æklingur þessi er ekkert frumrit, eins og auðvitað er, heldur er hann svo til orðinn, að ekki færri en 8 rit nafnfrægra rithöfunda hafa verið hagnýtt til að semja hann. Hefur því þetta litla kver kostað mig eins mikla fyrirhöfn, eins og þó jeg hefði snúið æfisögu Lúters eptir N. M. Petersen á íslenzku; því mjer þótti enginn hægðarleikur að búa til „ágrip“, sem þó dræpi á flest markverðari atriðin í æfisögu þessa merkismanns. Og enga þá bók hafði jeg við höndina, sem var svo á sig komin, að henni mætti fylgja í öllu; má því vel vera, að um sumt sje farið fleiri orðum, en þyrfti, en um annað færri, en vera skyldi. Frá dauða Lúters (í 9. greininni) er sagt nákvæmlega af ásettu ráði, af því hans er ekki getið í siðabótarsögunni í 2. hepti af „Gamni og Alvöru“, sem segir þó margt frá Lúter, og er ágætlega samin, eins og við var að búast af þeim manni.

Að endingu vildi jeg óska þess, að alþýðu gæti geðjazt að kveri þessu, því henni er það ætlað; og ef svo tækist vel til, má vera, að æfisögur fleiri merkismanna yrðu smásaman prentaðar.

*J. Árnason.*

---

## *Prentvillur:*

Á 2. bls., 11. línu að neðan: beitti fyrir beittu. 15. bls., 9. l. a. n.: hnnn f. hann. 20. bls., 3. l. að ofan: ná- of prentað. 32. bls., 15. l. a. o.: vesæli f. vesali. 41. bls., 11. l. a. o.: Roterdam f. Rotterdam. 53. bls., 2. l. a. n.: bef f. hef. 63. bls., 9. l. a. o.: nært f. nær. 67. bls., 3. l. a. o.: böfðingjanna f. höfðingjanna. 80. bls., 3. l. a. o.: gjeðjazt f. geðjazt. Sömu bls., 15. l. a. o.: kiörríki f. kjörríki. 109. bls., 13. l. a. n.: Brjef f. brjef.

---

## YFIRLIT EFNISINS.



# MARTEINN LÚTER.

## 1. Yfirlit yfir ástand kristninnar fyrir siðabótina.

Þegar tímar liðu fram, hafði kristin trú farið svo mjög aflaga fyrir mannasetningum, að enginn postulanna mundi hafa þekkt hana aptur. Einkum voru klerkarnir sjálfir verst farnir. Þeir höfðu enga trúræknistilfinningu, ekkert traust á guði og enga mannást; en þó vildu þeir láta hinn villuráfandi almúga þylja langar bænir, er hann skildi ekkert í, gæta vandlega helgihalda fyrir siðasakir, leggja hart á sig á allan hátt, til yfirbóta synda sinna við guð; sjálfir lögðu þeir út af lognum kraptaverkum helgra manna, er svo nefndust, í staðinn fyrir að innræta mönnum sannindi kristinnar trúar og dyggðaboðorðin. Stundum ljetu klerkar jafnvel skrípalátum í ræðustólnum, var það einkum á páskunum, til að koma

tilheyrendunum til að hlæja páskahlátur. Sumir klerkar kvökuðu þá, eins og gaukar, aðrir gussuðu, eins og gæsir, og enn aðrir sögðu saurugar sögur, og þótti vænst, að sem hæst ljeti í hinum helgu veböndum kirkjunnar af hlátri tilheyrendanna.

Páfinn sjálfur var engu betri og hinir æðri andlegrar stjettar menn. Þeir skeyttu alls ekki um trúarbrögðin, en um mat og drykk var þeim einkar hugleikið, og beittu ýmsum brögðum, til að afla sjer fjár þess, er þeir eyddu aptur í svalli og sællífi. Þegar *Bonifacius* (Bónifasíus) hinn áttundi með því nafni var páfi, lýsti hann því yfir, að allir, sem kæmu til Rómaborgar árið 1300, til að kaupa fyrirgefningu synda sinna, skyldu lausir allra synda. Slikt fagnaðarár skyldi síðan halda við hver aldamót. Manngrúinn, sem streymdi til Rómaborgar þetta ár, auðgaði páfann og borgarlýðinn svo mjög, að þeir, sem urðu páfar eptir *Bonifacius,* beitti þessu sama bragði, til að afla sjer fjár, og biðu ekki aldamótanna, heldur hjeldu þeir fagnaðarár 50. hvert ár, síðan 30. eða 33. hvert ár, og síðast 25. hvert ár. Jafnvel á vorum dögum, 1825, hjelt *Leo* páfi hinn tólfti slíkt fagnaðarár; en þá var aðsóknin mun minni að Rómaborg, en verið hafði á fyrri öldum, þegar hjátrúin var sem megnust. Þó rökuðu páfarnir enn meiru fje saman úr höndum hins fáfróða lýðs, þegar þeir tóku það upp að selja syndalausnina eingöngu, án þess að ómaka menn

eptir henni til Rómaborgar. Klerkar þóttust reyndar eiga ráð á, að þeirra dómi, að veita þeim, er tók skriptir, syndafyrirgefningu; en þó hjeldu þeir, að guð ætti einnig nokkru þar um að ráða. Ef syndarinn leið enga hegningu þessa heims, hjeldu þeir, að hann yrði að skírast í hreinsunareldinum eptir dauðann, uns guð hefði á þann hátt fengið yfirbætur synda hans. En sá, sem vildi komast hjá þessari hegningu eptir dauðann, þurfti að kaupa syndalausnina, það er: hann þyrfti að fá skriflegt loforð páfans fyrir uppgjöf allrar hegningar fyrir ákveðna fjár-upphæð. En til þess að gjöra mönnum hægra fyrir að nálgast syndalausnarbrjefin, sendi páfinn menn í allar áttir, og áttu þeir að lofa mjög vöruna, enda svikust þeir ekki um það. Einnig ljet páfinn selja föstu-lausnarbrjef og kvittunarbrjef alls konar, og leyfisbrjef til að halda þjófstolnu fje, og til að fremja ofríkisverk. Fje það, er þannig aflaðist, var flutt til Rómaborgar, og eyddu páfarnir því þar, og vildarmenn þeirra aptur í svalli og munaðarlífi, og hæddust þar á ofan að heimsku þeirra, er þeir höfðu fjeflett. Þannig er sagt um *Alexander* páfa hinn sjötta (1492—1508), að hann hafi tapað einu sinni í spilum 100000 dúkátum, sem hann borgaði þegar í stað með peningum þeim, er fengizt höfðu fyrir syndalausnarbrjef á Þýzkalandi; hafi hann þá hlegið og sagt: „það eru eintómar syndir Þjóðverja“. Að eins endrum og sinnum leyfði páfinn stöku höfðingja veraldleg-

um að taka þátt í gróða þessum. Þannig leyfði hann kjörherranum á Saxlandi syndalausnarsölu um 20 ár, svo að byggður yrði upp aptur staðurinn *Freiberg*, er brunnið hafði, fyrir fje það, er fyrir kom syndalausnina; samt sem áður áskildi páfinn sjer þó fjórðung alls fjárins.

Reyndar höfðu guðhræddir og skynsamir menn öðru hverju mælt ákaft í móti þessum og mörgum öðrum ósiðum; en litlu fengu þeir áorkað til siðbóta, og voru drepnir af völdum klerka, sem engan hlut óttuðust meir en sannleikann. Kirkjuþingin, sem haldin voru í því skyni, gátu ekki heldur komið neinu lagi á í andlegum efnum. En löngun allra hinna betri manna eptir trúarbótinni sýndi ljósast, að þörf var orðin á henni; og þó hinar fyrstu tilraunir, til að koma henni á, tækjust ekki, vöktu þær þó von um, að sá tími væri í nánd, sem guð hefði fyrirhugað til þessa.

## 2. Fyrri hluti æfi Lúters.

Maður er nefndur *Hans Lúter*, hann var málmnámumaður *(málmnemi?)* snauður og ráðvandur, og bjó hann fyrst í bæ þeim, er *Möra* heitir, í *Thüringerwald*, þar höfðu og forfeður hans búið á undan honum. Konu átti hann þá, er hjet *Margrjet Lindemann*. Einhverju sinni bar svo við, að hann fór á markað til *Eisleben*, og kona hans með honum; ól hún þar sveinbarn 10. dag nóvemberm. 1483, og var hann skírður daginn

eptir, en það var Marteinsmessudagur, og því var hann *Marteinn* kallaður. Litlu síðar fluttu foreldrar hans sig búferlum til *Mansfeld;* því þar hafði *Hans Lúter* boðizt arðsamara starf við málmnámurnar, enda breyttist hagur hans úr því til batnaðar, og svo var hann vel metinn í *Mansfeld*, að hann var kjörinn þar í borgararáðið. Snemma setti hann son sinn til mennta og kom honum í skóla, og var *Lúter* yngri laminn þar mjög, og þó ekki síður af föður sínum; því þá þótti það barna uppeldi bezt, að þau væru hýdd opt og drjúgum. Að öðru leyti unni faðir hans honum af alhuga; og ef veður var slæmt, bar hann son sinn á handlegg sjer í skólann. Þegar *Lúter* var á 14. árinu, sendi faðir hans hann til *Magdeburg* í skóla þar. Þar vegnaði *Lúter* all aumlega; hann varð að hafa ofan af fyrir sjer, með því að syngja fyrir dyrum úti og biðjast beininga. Þess vegna sendu foreldrar hans hann árið eptir til *Eisenach;* því þar átti móðir hans skyldmenni. En svo virðist, sem þessi skyldmenni hafi litla rækt við hann lagt; því þar varð hann einnig að syngja fyrir dyrum úti, til að afla sjer viðurværis, og þegar hann var þá rekinn burt með sneypu, sem stundum bar við, ætlaði honum opt og tíðum að hugfallast. En hann treysti guði, og reiddi sig á hann; enda kom honum hjálpin, þaðan sem hann varði minst. Kona ein efnug, er *Kotta* hjet, hafði opt tekið eptir því, að *Lúter* söng miklu

guðrækilegar, en aðrir skólasveinar, sem fleipruðu versin fljótt og hugsunarlaust. Einn dag, þegar hann stóð úti fyrir dyrum hennar, og söng, grár í gegn af kulda, ljet hún kalla á hann inn, og þegar hún varð þess vísari, að hann var bláfátækur, og hafði engan mat smakkað allan daginn, gekkst henni svo hugur við bágindum hans, að hún tók hann að sjer og veitti honum hús og fæði. Eptir það gat hann fyrst lagt allan hug á bókiðnir sínar, svo að hann skaraði fram úr skólabræðrum sínum á skömmum tíma. Jafnframt því lagði hann mikla stund á söng og hljóðfæraslátt, og ávallt hafði hann hjá sjer hljóðpípu og gígju.

Þegar *Lúter* var 18 ára gamall, hafði hann aflokið skólanámi, og fór þá til háskólans í *Erfurt*, og var foreldrum hans það hin mesta gleði; því bæði vildu þau og vonuðu, að hann yrði lögfræðingur. Þess vegna styrkti faðir hans hann hart nær meir, en hann var megnugur um. Þegar *Lúter* var orðinn meistari í heimspeki, lagði hann helzt fyrir sig lögfræði að vilja foreldra sinna, og fól guði allan árangur iðju sinnar; því það var viðkvæði hans: „heit bæn er hálfur lestur.“ Af því hann lagði mikið að sjer og vakti langt fram á nætur, en var óhraustur til heilsu, lagðist hann veikur. Hann hjelt sjálfur, að hann mundi deyja; en prestur einn gamall, er vitjaði hans í legunni, hughreysti hann með þessum spámannlegu orðum: „Látið yður ekki hugfallast, meist-

ari, þjer munuð ekki deyja í þessari legu; því þjer munuð verða mikilmenni með guðs aðstoð, og þjer munuð hugga margar hrelldar sálir; en guð lætur þeim snemma mótlæti að höndum bera, er hann elskar, og læra hinir þollyndu mest af því.“

Einu sinni þegar *Lúter* var á háskólanum, fann hann ritninguna á latínu, og sást ekki í hana fyrir ryki og rusli. Ritninguna hafði hann aldrei fyr sjeð, eins og hann sjálfur kemst að orði: „Þegar jeg var tvítugur, hafði jeg ekki sjeð biflíuna; jeg hjelt, að guðspjöllin og pistlarnir væru ekki stærri, en til er fært í prjedikunarbókunum;“ því í þá daga var ritningin, þessi örugga undirstaða trúar vorrar, sem nú er á hverju heimili, ærið sjaldgæf, og hart nær ófáanleg á þýzkri tungu. Andlegrar stjettar menn leituðust þá og við af ásettu ráði að halda henni leyndri fyrir alþýðu, svo að hún gæti ekki komizt að, hversu kenningar Páfatrúarmanna voru fráleitar ritningunni. Svo kvað rammt að fáfræði manna í þessari bók, að margir lærðir menn og klerkar þekktu hana jafnvel ekki, og voru því fulltrúa um hjegiljur þær, er þeim höfðu verið sagðar um helga menn, og kenndu þær aptur öðrum. Doktor *Karlstadt*, er var háskólakennari í *Wittenberg*, sagðist hafa verið orðinn doktor í guðfræði, þegar hann sá fyrst heilaga ritningu. Þegar *Lúter* hafði fundið þessa bók, las hann hana aptur og aptur kostgæfilega, og því optar og bet-

ur sem hann las hana, því betur opnuðust augu hans; þá sá hann fyrst, hversu háskalega klerkar hefðu tælt hinn vesala lýð, og í hverju kenningar Jesú voru fólgnar. Hann óskaði sjer af öllu hjarta að eiga þessa bók. „Hvernig færi," hugsaði hann með sjer, „ef jeg legði fyrir mig guðfræði, og fræddi alþýðu um hin guðlegu sannindi"? En ávallt, þegar hann hugsaði um þessa ráðabreytni, kom honum til hugar ósk foreldra sinna, er vildu láta hann nema lögfræði; því hann mátti aldrei til þess hugsa, að það ætti fyrir sjer að liggja, að verða lögfræðingur. Þannig var *Lúter* milli steins og sleggju, þar sem samvizka hans var öðru megin, en hinu megin hlýðni hans og ást til foreldra sinna, og þó urðu nú tveir atburðir í lífi hans, er bökuðu honum enn mikla áhyggju. Eina nótt var aldavinur hans, *Alexius,* lagður til bana, og vitnaðist aldrei, hver á honum hafði unnið; hinn atburðurinn var það, að þegar *Lúter* var einu sinni á skemmtigöngu, laust eldingu niður svo nærri honum, að hann varð utan við sig lengi eptir. Báðir þessir atburðir virtust honum bending frá guði, að hann skyldi snúa sjer frá heiminum og ganga í klaustur. Og það staðrjeði hann með sjer; en áður hjelt hann vinum sínum veizlukorn að skilnaði, bjó um klæði sín og meistarahringinn, og sendi foreldrum sínum hvorttveggja, um leið og hann kynnti þeim frá ráðabreytni sinni; að því búnu fór hann þegar sömu nóttina í *Ágústínus* klaustr-

ið hjá *Erfurt,* það var árið 1505. Foreldrum hans gramdist þetta fyrirtæki sonar síns; og *Lúter* kannaðist sjálfur við það síðar, að hann hefði undið of bráðan bug að þessu. En guð lætur opt og tíðum grunnhyggni manna verða þeim að góðu, og svo varð og um þetta fyrirtæki.

Margt var *Lúter* til mótgangs í klaustri þessu. Reynsluár sitt varð hann að hafa á hendi hin örðugústu og þyngstu störf. Hann var sendur með beiningapoka á bakinu um bæinn, til að safna í hann brauði, eggjum og osti og öðru slíku; hann varð að setja stundaklukkuna í klausturturninum, sópa kirkjuna og krossgöngin, sjá um gatnahreinsun og náðhúsa, og ef hann hafði þá fáein augnablik afgangs skyldustarfa sinna, varði hann þeim til að lesa kostgæfilega í ritningunni; en þá atyrtu hinir munkarnir hann, og sögðu, að menn ættu að efla hag klaustursins með beiningaferðum, en ekki bóklestri. Loksins kom að því, að *Lúter* var prestvígður, var það gjört 2. dag maímán. 1507, hart nær tveim árum eptir að hann gekk í klaustrið. Um þetta leyti þjáðist *Lúter* mjög af hugarangri; því hann ímyndaði sjer, að hann hefði ekki gjört enn skyldu sína, og að sjerhver veraldleg hugsun, eða ef honum varð það á, að renna huganum til hins fyrra ástands síns, væri stórglæpur. Líkamskraptar hans þverruðu smásaman; því margan dag neytti hann einskis nema einnar brauðsneiðar og magurrar síldar við. Einu sinni lokaði

hann að sjer kompu sinni í marga daga, og mundi hann hafa dáið þar, hefði ekki vinur hans einn brotið upp dyrnar, og vakið hann af ómegi hans með söng, er *Lúter* mat öllum listum meir. Einnig ól guð önn fyrir, að samvizkusturlun *Lúters* sefaðist: munkur einn var í klaustrinu, gamall og virðingarverður; af honum tók *Lúter* opt skriptir, hann hughreysti *Lúter* og huggaði hann með því, að Jesús hefði heitið öllum iðrandi syndurum fyrirgefningu synda sinna, og vísaði honum á greinina í trúarjátningu postulanna: „Jeg trúi á fyrirgefningu syndanna". Af þessum orðum munksins sefaðist hugtregi *Lúters* frábærlega. Einnig vitjaði *Johan Staupitz* hans opt, er var aðalaðstoðarmaður munkreglu þessarar; því honum var orðið vel til *Lúters.* Einn dag sagði hann við *Lúter:* „Þú þykist vera stórsyndari, en ert það þó ekki reyndar. Ef Jesús á að hugga þig og hjálpa þjer, máttu ekki láta sturlast af hverjum hjegóma, og ekki álíta sjerhverja hugsun þína syndsamlega".

Eigi að síður mundi áreynslan og þunglyndið hafa gjört út af við *Lúter,* hefði ekki annað snúizt fyrir, svo að hann yfirgaf munklífið, sem lagðist svo þungt á hann. *Friðrik hinn vísi,* kjörherra á Saxlandi, hafði stofnað háskóla í *Wittenberg* 1502, og þar eð hann leitaðist við að fá dugandi kennara í heimspeki við háskóla þennan, stakk *Staupitz* uppá *Lúter* við kjörherrann. Hversu mjög sem *Lúter* færðist undan að

yfirgefa klausturkompu sína og hverfa aptur að heiminum, tjáði honum það ekki; því *Staupitz* ljet ekki fyr af, en *Lúter* gaf jáyrði sitt til þessa. 1508 fór hann til *Wittenberg*, er þá var aðseta kjörherrans, var þá *Lúter* á 5. árinu um tvítugt; tók hann sjer herbergi í *Ágústínus* klaustri því, er þar var. Sagt er, að sú klausturkompa standi enn í *Wittenberg*, sem *Lúter* bjó í, og að í henni sje húsbúnaður lítilfjörlegur, er hann hafði þar. Nokkru eptir að *Lúter* var kominn til *Wittenberg*, lagði *Staupitz* mjög að honum að stíga einu sinni í stólinn. En *Lúter* var feiminn og færðist undan því, því hann þóttist vera ófær til þess. „Herra doktor", sagði hann, „þjer ætlið að gjöra út af við mig, því þetta þoli jeg ekki einn ársfjórðung til". En þó linnti *Staupitz* ekki látum, fyr en *Lúter* hjelt ræðu, og ávann hann sjer almannalof og hylli þegar með fyrstu ræðunni; því hann flutti hana með allri þeirri andagipt og afli, sem í guðrækinu brjósti getur búið. Öllum þótti svo mikilsvert um ræðu þessa, að menn lögðu þangað til að honum, að hann tók að sjer preststörf með háskólastörfunum; enda vantaði hann ekki áheyrendur, því á hverjum helgidegi var kirkjan troðfull, sú er hann messaði í.

Þeir menn, sem vanir eru að álíta sjerhvern atburð guðlega stjórnun, hafa ávallt gott af snöggum breytingum á hinum ytri högum þeirra. Og svo var og með *Lúter:* allur kvíði fyrir ónáð

guðs hvarf frá honum eptir þetta, hann tók aptur gleði sína, og treysti guði upp frá því öruggur. Hann ímyndaði sjer, að guð ætlaðist svo til, að hann skyldi rifja upp aptur ritninguna fyrir mönnum, er menn vissu varla af að segja um langa tíma, fræða söfnuð sinn um kenningar hennar og kveykja það trúnaðartraust hjá öðrum, og veita þeim þá huggun, er hann hafði sjálfur fengið af lestri hennar; þetta hjelt hann, að væri guðleg ráðstöfun með sig, sem áður hafði verið atkvæðalaus munkur í *Erfurt*, en var nú orðinn háskólakennari og prestur í höfuðstaðnum á Saxlandi án tilverknaðar sjálfs hans. Áður var hann geðveikur og þunglyndur, en nú varð hann einhver kátasti og viðfeldnasti maður í umgengni; áður var hann orðfár og einurðarlítill, en nú varð hann snjallmæltur og djarfmæltur; áður var hann beygjulegur og lítilsigldur, en nú varð hann karlmannlegur og þrekmikill, og sýndi hann þrek sitt síðar. Lærður maður nokkur, er var heyrnarvottur að kappræðu þeirra *Lúters* og *Ecks* í *Leipzig* (1519), er síðar mun getið, hefur lýst *Lúter*, eins og hann var þá, á þessa leið: *Marteinn Lúter* er meðalmaður á hæð, magur af lestri og áhyggjum, svo að hart nær má telja hvert bein í honum, en þó er hann karlmannlegur og hress og raddmaður góður. Hann er fróður maður mjög og einkar kunnugur ritningunni, svo að hann veit hana alla á fingrum sjer. Svo er hann vel að sjer í grísku og

hebresku, að hann hefur gott vit á þýðingum þeirra tungna. Ekki verður honum orðfall; því að í honum er mesti sjór, svo hefur hann liðugan talanda og mikinn fróðleik til að bera. Í viðmóti er hann kurteis og vingjarnlegur, en hvorki önugur nje óþýður ákomu; hann getur lagað sig eptir öllum kringumstæðum. Á mannfundum er hann kátur og gamansamur, fjörugur og síglaður, og svo lítur út, sem hann sje ávallt að gjöra að gamni sínu og sje ánægður, hvernig sem mótstöðumenn hans ógna honum, svo að ekkert er bersýnilegra, en að guð styrki hann til svo mikilsvarðandi starfa". Mörg gamanyrði *Lúters* eru enn til, og sýna þau, hversu fyndinn hann var og skemmtilegur. Hann var svo gefinn fyrir söng, gígjuslátt og hljóðpípuleik, að hann áleit söng öllum listum æðri, og guðfræðina eina tók hann fram yfir hann; sjálfur söng hann og ljek á hljóðfæri jafnvel á efri árum sínum, og bjó til mörg lög. „Söngur", segir hann „hressir manninn opt betur, en matur og drykkur".

Tveimur árum eptir að hann varð háskólakennari, varð hann að fara til Rómaborgar í erindum munkreglu sinnar. Nokkrir segja, að hann hafi átt að fá páfaleyfi fyrir því, að munkar mættu neyta kjöts, ef þeir væru sársjúkir, þó það væri á móti klausturheiti þeirra. En með því að bænir manna fengu enga áheyrn í Rómaborg, ef beiðendur komu þangað tómhendir, þá voru honum fengnir 10 dúkátar, til að múta með þeim þjón-

um páfans. *Lúter* huggði gott til að fara þessa för, því hann ímyndaði sjer, að páfinn væri sannhelgur maður, og þeir andlegrar stjettar menn, sem með honum voru, væru hin fegursta fyrirmynd dyggðar og guðrækni. En því meir sem hann nálgaðist Rómaborg, því spilltari sá hann að klerkar voru. Í Rómaborg sjálfri tók þó yfir, því þar var gjálífið mest og hirðuleysið, og þar heyrði hann hinar hræmuglegustu sögur um ólifnað páfans sjálfs; hinar helgustu athafnir voru eins framdar, eins og þær væru hirðsiðaþjónusta. Þegar *Lúter* sjálfur söng þar messu einu sinni með allri þeirri tign og lotningu, sem slíkum störfum sómir, hvísluðu klerkarnir, sem næstir stóðu, að honum: „Flýttu þjer, flýttu þjer, svo að þú verðir einhvern tíma búinn“. „Varla hafði jeg snúið mjer einu sinni við fyrir altarinu“, sagði *Lúter* sjálfur, „fyr en þeim þótti nóg komið. Það er eins og maður eigi að lesa bænina vegna borgunarinnar“. Þessi svívirðing gekk svo grandvörum manni, sem *Lúter* var, mjög til hjarta, og síðar sagði hann vinum sínum, að hann hefði viljað fara þessa ferð, þó hann hefði átt að gefa til þess þúsund gyllini; því í þeirri ferð sá hann fyrst háttsemi Páfatrúarmanna, eins og hún var í raun rjettri, og hann hefði, ef til vill, aldrei lagt það upp, sem hann framkvæmdi seinna, hefði hann ekki farið þessa för, og orðið alls þess áskynja, sem hann sá og heyrði í Rómaborg.

Nokkru eptir að *Lúter* kom heim aptur úr þessari Rómaför sinni, vildi *Staupitz*, virktavinur hans, að hann yrði doktor í guðfræði. Í fyrstunni gat *Lúter* með engu móti fengið af sjer að taka á móti slíkri virðingu, því hann þóttist vera of ungur til þess; hann færðist undan við *Staupitz* með því, að hann þóttist vera óhraustur, og mundi því að eins lifa skamma stund. En loksins ljet hann að orðum yfirboðara síns, og varð doktor (19. d. októbermán. 1512); en *Friðrik* kjörherra hjelt uppi kostnaði öllum fyrir *Lúter* við það tækifæri; því bæði hafði hann mætur á honum, og *Lúter* var sjálfur snauður maður, og laun hans nægðu að eins bráðustu þörfum hans. Eptir að hann varð doktor, fór hann fyrst að leggja stund á hebreskuna, svo að hann gæti lesið ritninguna í frummálinu. Hann þýddi og í fyrirlestrum sínum einstakar bækur af henni, og í ræðum sínum gjörði hann ritninguna söfnuðinum kunna. Því betur sem hann komst að anda ritningarinnar, því ljósar og skiljanlegar þýddi hnnn hana, og því betur sem hinar óbrotnu kenningar Krists og postulanna ruddu sjer til rúms í hjarta hans, því fráhverfari varð hann hinni smásmugulu heimspeki skólamanna; menn fóru og að taka eptir því, að hann fór að sveigja að skóla-heimspekinni í kappræðum sínum og gjöra lítið úr henni, í svo miklum metum sem hún hafði verið á miðöldunum og allt til þessa. En þar eð alla mótstöðumenn

hans skorti mjög á við hann í biflíufræði, bar hann ávallt hærra hlut í hverri kappræðu.

### 3. Syndalausnarsalan; siðabótin byrjar; Lúter í Augsburg.

Öndverðlega á 16. öld sat sá maður á páfastóli, er reyndar var vel að sjer, en jafnlítið skeytti hann um trúarbrögðin, sem flestir hinir fyrri páfar; það átti hann og sammerkt við þá, að hann var maður fjegjarn, sællífur ákaflega og skrautgjarn. Þessi maður var *Leo* hinn tíundi. Árið 1517 stofnaði hann syndalausnarsölu að nýju á þýzkalandi, og ljet hann sem sjer gengi það til, að hann vildi ljúka við hina skrautlegu Pjeturskirkju í Rómaborg, er þá var í smíðum, og forverari hans hafði byrjað á; en raunar bjó hitt þó undir, að hann þurfti á fje að halda, til að greiða heimanmund systur sinnar, er *Margrjet* hjet. Páfinn hafði fengið *Albrecht*, erkibiskupi í *Mainz* og *Magdeburg*, umboð sitt til að sjá um syndalausnarsöluna; *Albrecht* var reyndar ekki vondur maður, en mjög leit hann á eigin hag, og engu minni sælkeri var hann en páfinn sjálfur, og þar eptir makráður. Hann fór því hvergi, en fjekk öðrum manni umboð sitt til að fara um landið, og gylla syndalausnina fyrir mönnum. Þennan starfa fól hann manni þeim á hendur, er hjet *Johan Tezel*, hann var svartmunkur frá *Leipzig*, einhver blygðunarminsti maður, og að öllu rjettkjörinn til slíkra hluta. *Tezel* hafði

með sjer skrínur tvær miklar, í annari þeirra hafði hann syndalausnarbrjefin, en í hina ljet hann fje það, er hann fjekk fyrir þau. Alstaðar, þar sem hann kom í borgir og bæi, ljet hann varning sinn falan, og lýsti því yfir hátt og skýrt, að menn gætu keypt sjer syndalausn fyrir fje. Hann svífðist og ekki að sýna erindisbrjef það, er páfinn hafði gefið honum til að fyrirgefa syndirnar. Hann sagði, að guð hefði fengið páfanum í hendur allt vald á jörðu, og að allt það, sem páfinn ákvæði, væri því eins gilt, og það kæmi frá guði sjálfum. Hann ljet og reisa krossmark rautt sjer til annarar handar, og var þar á dregið skjaldarmerki páfans, og stóð hann fastara á því en fótunum, að krossmarkið sitt væri eins kröptugt og krossinn Krists, og að hann hefði frelsað fleiri sálir úr hreinsunareldinum með syndalausn sinni, en Pjetur postuli með kenningum sínum. Hann bað menn ekki sitja sig úr svo góðu færi að fá lausn synda sinna, ekki að eins þeirra, er drýgðar voru, heldur og hinna, er menn mundu drýgja; en með því honum tókst að telja mönnum trú um sannleik þessara orða sinna:

„Sálin flýgur úr synda kvölum,
þá silfrið glamrar á skrínufjölum",

þá flykktist að honum allur lýður, svo að honum flaug út varningurinn; margur fátæklingurinn ljet þann eina skildinginn, sem hann átti, fyrir brjefmiða, til að fá lausn fyrir föður eða barn og aðra náunga frá hreinsunareldinum, eða

og sjálfum sjer til lausnar. Verðlagið á lausnarbrjefum *Tezels* fór eptir því, hvort syndirnar og undanþágurnar, sem um var beðið, voru stórar eða litlar; lausn hverrar sálar úr hreinsunareldinum kostaði hjer um bil 16 skildinga eptir gangverði því, sem nú tíðkast. Þessi syndalausnarsala var bæði óguðleg og rjettnefnt skálkaskjól allra klækja og mannvonzku; því nú þóttust menn mega að ósekju aðhafast hverja óhæfu, sem þeim kom til hugar, þegar ekki þurfti meira en fáeina skildinga til að kaupa sjer fyrir syndalausn og sýknu.

*Tezel* kom og til *Wittenberg* sem annarstaðar, og urðu þar einnig margir til að kaupa syndalausn af honum. Höfðingjarnir kvörtuðu sáran, að hann fjefletti þegna þeirra, og rúði lönd þeirra[1]; en þó þeir væru margir, sem sáu, hversu hæfulaus syndalausnarsalan var, vildi eigi að heldur enginn verða fyrstur til að mæla á móti svo fornri hjátrú og innrættri. Opt höfðu páfarnir brallað þetta, sem áður er á vikið, og aldrei orðið hált á því. En nú var tíminn kominn, sem guðleg forsjón hafði fyrirhugað, til að leiða heiminum fyrir sjónir athafnir páfanna, og til að frelsa kristnina undan villu þeirra og kúgun.

Sú hugsun hafði orðið æ ríkari hjá *Lúter*, að guð hefði sett hann í þessa stöðu, til þess að hann skyldi framkvæma guðs vilja. Þegar hann

[1]) Þannig hafði Tezel fengið full 2000 gyllini fyrir lausnarbrjef í einum bæ, það var í Freiberg.

sá óhæfu þá, sem *Tezel* fór með, þótti honum tími til að beita sjer. En áður en hann fór upp úr með það, ritaði hann hinum helztu biskupum á Þýzkalandi, og bað þá að hamla slíkri villu. Og þegar honum tjáði það ekki, varð hann svo uppvægur af þessum hörmulegu svikum, að hann hjelt harðar hegningarræður á móti syndalausnarsölunni. Þó *Lúter* væri áður svo ístöðulítill og feiminn, að hann þyrði ekki að flytja ræðu í kirkjum, ljet hann sjer nú ekki vaxa í augum að ganga í berhögg við páfann og trú hans. Slíkt hugrekki veitir sannfæring sú, að menn breyti samkvæmt skyldu sinni og boði samvizkunnar. Að kvöldi hins 31. dags októberm. 1517 festi hann upp skjal á hurðina fyrir hallarkirkjunni í *Wittenberg;* á því voru skrifaðar 95 greinir, allar stílaðar í móti syndalausnarsölunni, og eru þessar þeirra helztar:

„Þeir kenna mönnum villu, sem segja, að sálin fari úr hreinsunareldinum, undir eins og fje er greitt til lausnar henni“.

„Hitt er satt, að þegar peningarnir skella í skrínunni, eykst af því ágirnd og aurasafn, en það er á valdi og vilja guðs, hvort sálir manna frelsast“.

„Þeir munu fara til helvítis með kennifeðrum sínum, sem gjöra sjer í hugarlund, að þeir verði hólpnir, þó þeir hafi keypt sjer syndalausnarbrjef“.

„Kenna skal kristnum, að páfinn sjálfur álíti

það ekkert miskunarverk að kaupa syndalausnarbrjef“.

„Kenna skal kristnum, að sá, sem sjer náúnga sinn nauð líða, en kaupir þó lausnarbrjef, geti ekki fengið syndalausn af páfa, því hann baki sjer ónáð guðs“.

„Kenna skal kristnum, að ef páfinn vissi, hvernig syndamangararnir fletta og flá fáráðan lýð, mundi hann heldur vilja, að Pjeturskirkjan brynni upp að köldum kolum, en að hún væri byggð upp af beinum, holdi og skinni sauða hans“.

„Það er guðlast, að láta sjer um munn fara, að krossmarkið, sem á er dregið skjaldarmerki páfans, sje eins kröptugt og krossinn Krists“.

„Svo blygðunarlausar og ósvífnar kenningar og lofræður um syndalausnina eru svo gífurlegar og hæfulausar, að lærðu mennirnir munu eiga örðugt með að verja tign og virðingu páfans á eptir, jafnvel fyrir óvöldum almúgamönnum“.

*Lúter* bauðst til að verja greinir þessar bæði skriflega og munnlega fyrir hverjum, sem hrekja vildi; en enginn varð til þess. Greinirnar bárust óðar, en af vissi, um allt Þýzkaland, því bæði voru þær prentaðar hvað eptir annað, endurritaðar og þýddar á þjóðverska tungu, því að í fyrstunni voru þær ritaðar á latínu, og fannst öllum mikið um þann mann, er hafði dirfzt að birta greinir þessar. Grein sú, er hjer fylgir, og tekin er úr

ritum *Lúters*, sýnir, hversu ótrauður hann var til alls þess, er hann áleit skyldu sína: „Sjerhver, sem ætlar að gjöra eitthvað gott“, segir hann, „kosti kapps um að framkvæma það, og leggi allt í sölurnar fyrir það, en treysti alls ekki á mannlega aðstoð og liðsinni, og óttist ekki heldur mennina eða heiminn; því þetta vers er ekkert skrum: „Það er gott að treysta drottni“. Jesús Síraksson segir og í 2. kap.: „Leitið, börn mín góð, meðal allra kynkvísla, og þjer munuð komast að raun um, að aldrei hefur nokkur sá til skammar orðið, sem treysti drottni“. Og í hinum 25. sálmi Davíðs segir svo: „Enginn þeirra, er reiða sig á þig, verður til skammar“. En sjerhverjum, sem ekki vill eða þorir treysta guði, er betra og ráðlegra að ráðast ekki í neitt guðlegt, eða það sem til heilla horfir, ef hann treystir mannlegri aðstoð. Þegar jeg mælti fyrst á móti syndalausnarsölunni í heyranda hljóði, hjeldu allmargir vinir mínir, að slíkt væri að reisa sjer hurðarás um öxl; príórinn, er var yfirboðari minn, kom til mín, og bað mig í öllum bænum að gjöra ekki munkreglunni slíka vanvirðu: því hann óttaðist óspektir af alþýðu. En jeg svaraði honum þannig: „Faðir kær, ef jeg hef ekki byrjað þetta fyrirtæki í nafni guðs, mun það brátt verða að engu, en sje það byrjað í hans nafni, þá látum guð annast um afleiðingarnar“. Þá þagnaði príórinn; en fyrirtæki mitt heldur enn á fram, og mun halda á fram, ef guð lofar, uns það er full-

komnað. Amen". Svona óbifanlegt var traust *Lúters* á guði, og svona hafði hann kynnt sjer ritninguna, að hann hafði ávallt á takteinum greinir úr henni og orðatiltæki.

Svona voru vinir *Lúters* uggandi um hann, og var það að vísu ekki ástæðulaust. Margir gjörðust nú til að rita á móti *Lúter*, og einna helzt svartmunkarnir, þeim þótti *Lúter* hvorki húshæfur nje kirkjugræfur, fyrir því að hann hefði orðið svo nærgöngull hátign páfans. *Conrad* (Konráð) *Wimpina* er maður nefndur, hann var háskólakennari í guðfræði í *Frankfurt* við *Oder*, hann ritaði í móti *Lúter* eptir undirlagi *Tezels*, sem hafði farið vonum bráðar í burt frá *Wittenberg*, eptir að *Lúter* hafði fest upp greinir sínar; því honum var þar illa vært. *Lúter* þóttist neyddur til að svara ritum svartmunka, og með fram birti hann það álit sitt, að, ef páfinn og kardínálarnir væru samdóma þessum blygðunarlausu loftungum syndalausnarinnar, þá væri enginn efi á því, að Antakristur hefði aðsetursstað sinn í Rómaborg. Þannig lifnaði sú hugsun fyrst í brjósti *Lúters*, sem síðan steypti ofveldi páfans. En þó hafði hann enga ímyndun um það enn, að svo mundi fara. Verst fjell *Lúter*, þegar fjandmenn hans fóru að leggja fyrirtæki hans svo út, að hann gjörði þetta til að afla sjer álits og veraldlegs hagnaðar. Svartmunkur nokkur, *Sylvester Prierio* að nafni, er var í miklum metum hjá páfa og í hirð hans, ritaði *Lúther*

þannig: „Ef þú, *Lúter* sæll, fengir auðugt biskupsdæmi hjá páfanum, herra vorum, og fullkomið umboð til að selja syndalausn til viðreisnar kirkju þinni, þá, trú mjer til, þú mundir láta lægra, og lofa eins mikið syndalausnina, eins og þú lastar hana nú". En *Lúter* svaraði honum aptur á þessa leið: „Margur ætlar mig sig. Ef jeg sæktist eptir metorðum af páfa, mundi jeg ekkert það mæla, er ljeti svo illa í eyrum þínum, eins og þjer þykja orð mín láta; eða gjörirðu þjer það í grun, að jeg viti ekki, hvernig menn fara að ráði sínu, til að fá biskupsdæmi og auðug brauð í Rómaborg"? Einnig ritaði *Lúter Leo* páfa brjef 1518 og skaut máli sínu til hans, kvaðst að eins hafa gjört, það sem hann gjörði, guði til dýrðar, og leiddi páfanum fyrir sjónir, að hann hefði látið hræsnara tæla sig. Endirinn á brjefinu er svona: „Jeg varpa mjer því, heilagi faðir, fyrir fætur yðar, og fel mig og allt mitt á yðar vald. Yðar hátign er rödd Krists, sem í yður mælir. Ef jeg hef verðskuldað dauðann, þá skorast jeg ekki undan að þola hann; því jörðin er drottins og allt sem á henni er. Lofaður sje hann að eilífu". Ekki er að sjá á þessu brjefi, að *Lúter* hafi ætlað sjer fyrir alvöru að losa sig við páfatrúna, brjefið er of auðmjúkt og hógvært til þess; en hann áleit það skyldu sína að benda páfanum á, að honum hefði sjezt yfir með syndalausnarsöluna. Þetta brjef sendi *Lúter Staupitz*, og bað hann koma því til Rómaborgar, og fór

um það þessum orðum, er lýsa svo vel hinu guðrækilega hugarfari *Lúters:* „Kristur, drottinn minn, dæmi um það, hvort jeg á í þessum deilum mín eða hans vegna, sem einn ræður sjerhverju tungubragði páfans, og sem hefur hjörtu konunganna í hendi sjer. En hvað hina óvægu fjandmenn mína snertir, sem ógna mjer og um mig sitja, þá get jeg ekkert um þá sagt, annað en það, að sá, sem er snauður, óttast ekkert, því hann getur ekkert misst. Jeg á hvorki jarðir nje lausafje, og sækist ekki heldur eptir því. Það eina, sem jeg á, er líkami minn, og við hann mega þeir leika, sem þá lystir, hvort heldur þeir vilja gjöra út af við hann með vjel eða valdi; það er mjer enginn skaði, þeir stytta þá að eins líf mitt um fáeina tíma, og flýta þannig för minni til himins. Það nægir mjer, að jeg á drottinn minn, Jesús Krist, að, sem hefur endurleyst mig; hann skal jeg lofa og vegsama, á meðan mjer vinnst líf og aldur til".

Fyrirtæki *Lúters* vakti mikla athygli í Rómaborg, og *Leo* páfi hafði kjörið nokkra andlegrar stjettar menn í nefnd, til að rannsaka málið, og var *Prierio,* sá er áður var getið, bæði sóknari og dómari. 7. dag ágústmán. 1518 boðaði páfinn *Lúter* til Rómaborgar, skyldi hann koma þangað innan 60 daga. Og um leið skipaði páfinn Friðrik *vísa,* kjörherra á Saxlandi, að grípa *Lúter,* og senda hann svo til Rómaborgar. Lá það því beint við, að ef *Lúter* hefði farið þangað, mundi

hann aldrei hafa komizt þaðan heill aptur. En kjörherrann hafði mætur á *Lúter*, og allir þeir, sem að háskólanum stóðu, bæði kennendur og stúdentar, og mæltu hann því undan þeirri för við páfann. Páfinn ljet þá tilleiðast, að málið væri rannsakað í Þýzkalandi, og stefndi því *Lúter* til *Augsburg* (Ágsborgar) fyrir dóm sendiherra síns, *Cajetans* (Kajetans) kardínála. Þangað fór *Lúter* ótrauður, þó margir lettu hann þess, og fjekk kjörherrann honum frítt föruneyti og öruggt, nóg fje til ferðarinnar og meðmælabrjef til nokkurra ríkishöfðingja þýzkra, er komu honum í góðar þarfir. Kardínálinn tók *Lúter* fálega, og þó kurteislega, og vildi, að hann tæki aptur villu sína, færi ekki slíku á flot síðar meir, og forðaðist allt það, er raska mætti ró kirkjunnar. *Lúter* kvaðst fús að taka öll orð sín aptur, undir eins og þau væru hrakin með orðatiltækjum úr ritningunni. En á meðan þeir ræddust við, tók *Lúter* eptir því, að kardínálinn var næsta ófróður í ritningunni, eins og flestir andlegrar stjettar menn voru um þær mundir; „og þó", segir *Lúter*, „er hann talinn lærðastur allra svartmunka, en sagt er, að *Prierio* gangi honum næst; af því má ráða, hvernig hinn 10. eða 100. í röðinni niður eptir muni vera að sjer". *Cajetan* vildi ekkert tala um ritninguna, og kvaðst hafa annað að sýsla, en fara í kappræður við *Lúter*. Ljet hann svo *Lúter* frá sjer fara, og sagði við hann að skilnaði: „Haf þig á burt, og kom ekki fyrir

augu mjer, nema því að eins, að þú takir orð þín aptur“. En það vildi *Lúter* fyrir engan mun, og fer hann um það þessum orðum í brjefi til vinar síns: „Jeg er sannfærður um það, að um engan hefði kardínálanum þótt vænna, en um mig, hefði jeg að eins viljað jeta orð mín ofan í mig; en jeg vildi ekki verða villumaður, með því að kalla það álit mitt aptur, sem sýndi, að jeg var rjettkristinn; heldur kysi jeg dauða, bál, útlegð og óbænir“.

Vinir *Lúters* voru mjög hræddir um, að kardínálinn mundi láta grípa hann í *Ágsborg* og flytja til Rómaborgar; því að hann hafði gefið mönnum í skyn, að hann hefði umboð til þess af páfa. Þess vegna fjekk *Langemantel* öldungur *Lúter* hest og trúan mann til fylgdar, og hleypti honum út um borgarhlið eitt snemma morguns. Þó *Lúter* hefði ekki búizt við svo bráðri burtför frá *Ágsborg*, þar sem hann hafði engin reiðföt, og ekki svo mikið sem stígvjel á fótunum, komst hann þó fyrsta daginn 8 mílur áleiðis, enda var hann þá svo af sjer kominn, þegar hann fór af baki, að hann hneig sofandi niður á hálmbreiðuna á hesthúsgólfinu. Áður en hann fór frá *Ágsborg* hafði hann ritað kardínála afsökunarbrjef, og annað páfanum, og skaut um leið máli sínu undir hann; því hann ímyndaði sjer, að páfinn mundi vera fróðari í ritningunni, en *Cajetan*. Á heimleiðinni sá *Lúter* umboðsbrjef kardínála frá páfanum, og þá sá hann, að það hafði ekki verið

um skör fram, að hann hafði flúið frá *Ágsborg;* því svo var þar að orði kveðið: „Ef þú nærð honum (ɔ: Lúter) á vald þitt, verður þú fyrir hvern mun að láta gæta hans vandlega, þangað til þú færð vísbendingu frá oss aptur, svo að vjer náum honum undir vorn dóm. En ef hann fer þrjózku sinni fram, og þú færð ekki fang á honum, gefum vjer þjer fullkomið umboð, til að lýsa því yfir alstaðar á þýzkalandi, að hann og allir fylgismenn hans sjeu bannsettir, glataðir og meinbölvaðir villumenn. Og til þess að uppræta því fljótar þetta átumein kristninnar, skaltu áminna klerka alla og lögboðnar munkreglur (klaustur), svo og hertoga alla og markgreifa, að þeir skuli handsama *Lúter* og senda hann í sterku varðhaldi til vor", o. s. frv. Hversu sælan gat *Lúter* nú ekki talið sig, að hann hafði gengið úr greipum svo öflugs eptirleitarmanns. 30. dag októbermánaðar kom hann heill á hófi heim aptur til *Wittenberg.*

Kardínálinn gat ekki á sjer tekið fyrir gremju af málalokum þessum, þar sem hann og páfadómurinn hafði farið svo mjög halloka fyrir förumunki einum; hann ritaði því Friðrik kjörherra brjef, og skoraði á hann að banna *Lúter* að minsta kosti landsvist, ef hann vildi ekki framselja róstumanninn. Þetta brjef kardínála sendi Friðrik *Lúter* sjálfum, og svaraði hann þegar landshöfðingja sínum skriflega og með svo frábærri mælsku, að fjandmenn *Lúters* hafa jafnvel tekið til þess,

hversu vel það brjef var orðað. Þó Friðrik vísi hefði bæði mætur á *Lúter*, og væri í raun rjettri ágætismaður, var hann þó enn fanginn af kenningum Páfatrúarmanna, og því voru honum deilur þær mjög í móti skapi, er *Lúter* hafði vakið; honum mundi og hafa verið allkært, að *Lúter* hefði yfirgefið háskólann. Enda hafði *Lúter* ætlað sjer það, og í því skyni hafði hann gjört vinum sínum heimboð til kvöldverðar. Á meðan þeir mötuðust, fjekk *Lúter* brjef frá *Spalatin*, er var skrifari kjörherrans og hirðprestur, sagði hann *Lúter*, að húsbónda sinn furðaði stórlega, að hann væri ekki þegar farinn. Við þetta hryggðist *Lúter* mjög; en traust hans á guði gjörði hann hughraustan. „Faðir minn og móðir mín yfirgefa mig", sagði *Lúter*, og hóf augu sín til himins, „en drottinn annast mig". Og að vísu var það svo, drottinn yfirgaf hann ekki; því, áður en staðið var upp frá borðum, fjekk hann annað brjef frá *Spalatin*, og í því brjefi sagði hann *Lúter*, að, ef hann væri ekki þegar farinn, skyldi hann hvergi fara, því Friðrik kjörherra ætlaði að vernda hann.

Páfinn var mjög óánægður yfir erindislokum *Cajetans* kardínála við *Lúter*, og því sendi hann tignarmann einn, þann er hjet *Karl* frá *Miltitz*, til kjörherrans; átti hann að færa kjörherranum vígða gullrós frá páfa, eins og páfanna var siður til að senda konungum og höfðingjum þeim, er ríkjum áttu að ráða, til marks um náð þeirra

og mildi. Með þessu ætlaði páfinn að mýkja málin við kjörherrann, svo að hann snerist í lið með sjer; því raunar var hitt aðalerindi *Karls* til Saxlands, að hann átti að sefa deilur þær, er risið höfðu af fyrirtæki *Lúters*. *Karl* var maður hygginn og stilltur vel, og talaði svo mjúklega og vingjarnlega við *Lúter*, að hann hjet að hreifa ekki framar við trúargreinum þeim, er mest hafði verið um þrætt, ef mótstöðumönnum hans væri einnig boðið að þegja. Hann ritaði jafnvel páfanum auðmýktar-brjef, og í því sagði hann meðal annars: „Jeg játa fúslega, að þessi kirkja sje alls ráðandi, og að ekkert sje henni æðra hvorki á himni eða jörðu, nema Jesús Kristur, sem er drottinn alvaldur. Jeg vil og gjarnsamlega heita yður að nefna aldrei á nafn syndalausnarmálið og hætta við það með öllu; en þó því að eins, að mótstöðumenn mínir láti af markleysu-skrumi þeirra, diguryrðum og svívirðilegum ónytjuorðum. Þar að auki skal jeg opinberlega áminna menn í ritum, að kenna páfatrúna með hreinskilni og virða hana, en sjálfur skal jeg hætta öllum bituryrðum um hana, er mjer hafa hrotið, um leið og jeg hef sett ofan í við hina marklausu skraffinna, er hafa ásótt mig. En jeg hef einungis gjört það til þess, að rómverska kirkjan, sem er móðir vor, saurgaðist ekki af svívirðilegri ágirnd óhlutvandra manna, og lýðurinn leiddist ekki afvega með syndalausnarsölunni.

## 4. Kappræðan í Leipzig. Brjef Lúters til páfa; Lúter brennir bannsetningarbrjef sitt.

*Miltitz* ímyndaði sjer, að hann hefði jafnað allar misklíðir og deilur, sem risið höfðu af syndalausnarsölunni, og þaggað gjörsamlega niður í *Lúter.* En nú var svo komið, að það mál var ekki lengur komið undir ímyndun eins einstaks manns eða sannfæringu, hver svo sem hann hefði verið. Aldarbragurinn og hugsunarháttur manna var orðinn allur annar, en hann hafði verið, og Þjóðverjar ljetu sjer annara um málið en svo, að sætt sú gæti haldizt til lengdar, sem *Miltitz* hafði samið. Það var hvorttveggja, að fjandmenn *Lúters* gátu ekki setið á sjer að egna hann ekki í ritum sínum, enda gat hann þá ekki fengið af sjer, að láta þá vaða upp á sig að ósekju, svo að hann bæri ekki hönd fyrir höfuð sjer. Aldrei leið svo nokkur mánuður, að ekki væri prentað eitthvert smárit eða deilurit eptir *Lúter,* og voru þau keypt og lesin með mestu fýkn; því alstaðar voru nokkrir, sem voru samdóma áliti hans, og óskuðu honum allra heilla með viðleitni sína. Einhver hinn hatursfyllsti allra fjandmanna *Lúters* var doktor *Eck,* kennari og undirkanseleri við háskólann í *Ingolstadt;* hann þótti einhver nafnfrægasti skólaspekingur og guðfræðingur og mesti ritdeilumaður á öllu Þýzkalandi í þann tíma, en undir eins var hann maður illfús og mjög handgenginn páfa. *Eck* hafði ritað aðfinn-

ingar við greinir *Lúters*, er hann kallaði *Obeliska* (geirs-odda); því riti hafði *Lúter* svarað með öðru, er hann kallaði *Asteriska* (stjörnur). Þar að auki lá *Eck* í megnum ritdeilum við einn af fylgismönnum og embættisbræðrum *Lúters*, það var *Andreas Bodenstein*, háskólakennari í *Wittenberg*; almennt var hann kallaður *Karlstadt* eptir bæ þeim, er hann var borinn í. Þeir *Eck* og *Karlstadt* höfðu mælt sjer mót í *Leipzig* til opinberrar kappræðu. En *Eck* var stórhugaðri en svo, að hann ljeti sjer lynda að sigrast á *Karlstadt* einum, og því bauð hann *Lúter* undir eins til kappræðu við sig. *Eck* hafði samið 13 greinir, sem þeir þrættu síðar um í *Leipzig*, *Lúter* og hann; í greinum þessum beindist hann að hinum helztu trúargreinum *Lúters*. Meðal annars sagði *Eck*, að frá aldaöðli hefðu Rómabiskupar verið álitnir höfuð kristninnar. Þessu neitaði *Lúter* þverlega í greinum þeim, sem hann samdi þegar á eptir; því hann hafði rannsakað uppruna páfatignarinnar frá rótum, og hvergi fundið neina átyllu fyrir henni, hvorki í ritningunni, nje ritum kirkjufeðranna; en aptur á móti hafði hann komizt að þeirri undirstöðu tignar þessarar, sem hann hafði ekki áður ímyndað sjer. Því ritaði hann (7. d. febrúarm. 1519): „Vera má, að deila þessi verði tilefni til þess, að gamanið fari að grána, og alvara verði úr því, sem vjer höfum hingað til haft fyrir leikfang, en ósjeð er, hversu góðar afleiðingarnar verða fyrir

harðstjórnina rómversku". Vinur *Lúters*, sá er hann ritaði þetta, rjeði honum til að fara varlega. En *Lúter* svaraði honum aptur á þessa leið: Mjer hefur aldrei búið það í brjósti að rífa mig undan yfirráðum páfa, en jeg get ekki heldur dregið dulur á efasemdir þær, sem vaknaðar eru hjá mjer um vald hans. Jeg er nú að lesa páfalögin af kappi, til að búa mig undir kappræðuna, sem er í vændum í *Leipzig*, og jeg veit ekki, nema páfinn sje *Antakristur* sjálfur (en það segi jeg ekki öllum), eða þá að minsta kosti postuli hans; því svo herfilega hafa páfarnir krossfest Krist, það er að segja sannleikann, og afbakað hann í ráðsályktunum sínum. Mjer svíður það sáran, að hinn vesæli lýður Krists vanvirðist þannig. Jeg verð æ betur og betur að mjer í heilagri ritningu".

Kappræðan í *Leipzig* byrjaði 27. dag júním. 1519, og stóð yfir til 13. d. júlím. Var þar saman kominn múgur og margmenni; 200 stúdentar fylgdu *Lúter* þangað frá *Wittenberg*, þeir hlupu með vagni hans og höfðu spjót og axir að vopnum *Lúter* til varnar. Í hvert sinn var salurinn, þar sem kappræðan fór fram, fullur af áheyrendum, og var *Georg*[1] hertogi þar sjálfur viðstaddur bæði fyrir og eptir miðdegi, og hlustaði á með mesta athyggli. Einkum var þar þrætt um frjáls-

[1]) Hann átti þá nokkurn hluta Saxlands, og í þeim hluta var Leipzig, þar sem kappræðan var haldin. Georg varð síðar einhver óvægasti fjandmaður Lúters.

ræði mannsins, og um vald páfans, og um syndalausnina og um hreinsunareldinn. En svo lauk kappræðu þessari, eins og flestum öðrum þrætum, að þeir *Lúter* og *Eck* skildu svo, að hvor var öðrum reiðari eptir en áður, og hvor um sig þóttist hafa haft rjett að mæla. Eptir kappræðuna ljet *Eck* það berast, að *Lúter* hefði haft púka einn í vasa sínum, sem hefði eflt hann í móti sjer.

Sama árið sem kappræðan var í *Leipzig* (1519), dó *Maximilian* keisari a Þýzkalandi; buðu þá höfðingjar Þjóðverja Friðrik hinum vísa keisaratignina. En hann var of vel viti borinn til þess, að hann þæði hana, og stakk upp á, að þeir skyldu kjósa *Karl* hinn fyrsta, konung á Spáni, til keisara, og var svo gjört. Reyndar gekk Friðrik það mest til, að hafna þessu sæmdarboði Þjóðverja, að *Frants* hinn fyrsti, Frakkakonungur sóttist mjög eptir keisaratigninni á Þýzkalandi, var því hverjum vís von ófriðar af honum, sem keisari hefði orðið, og kom það síðar fram við *Karl* keisara. En á meðan keisaralaust var á Þýzkalandi, var Friðrik kjörherra ríkisstjóri um nyrðri hluta landsins, og þegar *Karl* keisari kom þangað, þóttist hann eiga Friðrik tign sína að þakka, og hafði hann því í mestu kærleikum jafnan síðan. Þetta studdi mjög að efling siðabótarinnar; því nærri má geta, að það hefði verið hægðarleikur fyrir keisarann og páfann, að bæla niður þá byrjun til siðbóta, sem enn

var komin, hefðu þeir lagzt báðir á eitt. Ekki ljet páfinn heldur sitt eptir liggja.

Árið eptir kappræðuna í *Leipzig* fór doktor *Eck* til Rómaborgar, til að koma páfanum til að taka á valdi sínu við *Lúter*. Og tók páfinn svo greiðlega því máli hans, að hann ljet semja bannsetningarbrjef yfir *Lúter;* í brjefi þessu voru teknar til 41 grein úr ritum *Lúters,* sem þóttu vera rangar, táldrægar og hneykslanlegar villukenningar, og viðbjóður fyrir sjerhvern kristinn mann að heyra og um hönd að hafa. Þó var *Lúter* og fylgismönnum hans veittur 60 daga frestur, til að taka aptur villukenningar sínar, og var hann þá sýkn saka, en ella skyldi hann bannsettur, og allir þeir, er honum fylgdu. *Eck* kom sjálfur með brjef þetta aptur til Þýzkalands, og var heldur en ekki hróðugur yfir erindislokum sínum til *Rómaborgar.* Þó páfanum hefði farizt svo ómannlega að rjúfa sættir þær, er *Miltitz* hafði samið milli hans og *Lúters*, ljet *Lúter* þó tilleiðast fyrir tilmæli *Miltitz* að skrifa páfa enn þá einu sinni brjef, ef verða mætti, að sættir kæmust á með þeim. En brjef það, er *Lúter* ritaði þá, og sem er alleptirtektavert, sýnir ljóslega, að hann gjörði sjer enga von um, að sættir gengju saman, en hann gjörði þessa síðustu sáttatilraun vinum sínum til geðs, sem væntu, að vel mundi fara, ef hann slakaði til og væri friðfús.

Í formála brjefs þessa leiddi *Lúter* rök að

því, að hann hefði aldrei talað öðruvísi um páfann, en virðingu hans væri samboðið, og að hver, sem annað segði um sig, væri lygari. „En hitt er satt“, segir hann, „að jeg hef ekki þyrmt hinum rómverska stól, og verður bæði þú og sjerhver annar að játa, að sá staður er hneykslanlegri og svívirðilegri, en borgirnar *Sódóma* og *Gómorra* og *Babýlon* voru nokkurn tíma. Svo er vonzkan þar rík og römm orðin, að henni verður ekki viðhjálpað; þar hafa menn sleppt öllu taumhaldi við sig og sökkt sjer niður í hyldýpi lastanna. Þess vegna hefur mjer sviðið það sáran, að hinn vesali lýður hefur verið gabbaður og á tálar dreginn í þínu nafni og í skjóli hinnar rómversku kirkju. Við þessu hef jeg spornað, og ætla mjer að sporna, á meðan nokkur guðlegur neisti lifir í mjer. Jeg segi ekki, að jeg treysti mjer til þess, sem mannlegum mætti er ekki unnt að afkasta, eða að jeg ímyndi mjer, að jeg megni nokkuð í móti hinni viðbjóðslegu *Rómaborg*, þar sem svo margir skæðir hræsnarar eru uppi á móti mjer, en jeg játa, að jeg er skuldbundinn til að hjálpa öllum kristnum mönnum, og því er það skylda mín að ráða þeim heilt og vara þá við, að þeir láti ekki átumeinin rómversku spilla sjer“. . .

Síðan lýsir *Lúter* afdráttarlaust spillingu hinnar rómversku hirðar *(Curie)*, og aumkar páfann sjálfan, að hann verði að vera þar innan um, eins og lamb á meðal úlfa. Hann segir og,

að sjer falli það illa, að páfinn, slíkt valmenni, skuli vera páfi yfir svo óhlutvöndum og illum mönnum. „Páfastóllinn í Rómaborg“, segir hann, „er ekki þess verður, að þú og þínir líkar sitji á honum, því hinn vondi ætti sjálfur að vera páfi, og hann mun án efa eiga eins mikinn þátt í stjórninni í „Babýlon“, eins og þú. Guð gæfi, að þú værir laus við þessa tign, er fjandmenn þínir nefna svo; því þá tign ætti enginn að hljóta, nema *Júdas* frá *Kariot* og hans líkar, sem guð hefur frá sjer snarað. Illa ertu kominn, *Leo,* ógæfusamasti allra manna, er situr á þeim stóli, sem er hættulegastur allra tignarsæta. Það eru sannindi, sem jeg segi þjer, því jeg ann þjer góðs“.

Samt sem áður heitir *Lúter* páfanum enn að nýju í brjefi þessu að láta hjer við lenda, ef fjandmönnum sínum væri boðið að láta sig óáreittan. „Mjer er illa við deilur og þrætu“, segir hann, „og vil ekki ýfa aðra eða á þá leita að fyrra bragði; sjálfur vil jeg og vera í friði. En ef á mig er leitað, skal jeg hvorki slá undan í ræðu nje riti, ef guð lofar“. . . . Að endingu varar hann páfann við hræsnurum með þessum orðum: „Hlýddu því ekki, heilagi faðir, hinum blíðmálu hræsnurum, sem segja þjer, að þú sjert ekki einnsaman maður, heldur sjertu guðkynjaður. En því fer fjarri, því muntu aldrei fá framgengt. Þú ert að eins þjón þjóna guðs, og staða þín er miklu hættulegri og aumkunarverðari, en

nokkurs manns annars á jarðríki. Láttu ekki tælast af ræðum þeirra manna, sem hræsna fyrir þjer og ljúga því, að þú sjert herra heimsins, sem segja, að enginn sá sje kristinn, sem ekki lúti valdi þínu, sem segja, að þjer sje gefið vald yfir himnaríki og hreinsunareldinum. Þessir menn eru fjandmenn þínir, sem leitast við að spilla þjer, eins og *Esaias* kemst að orði: „Lýður minn hinn ástkæri, þeir sem lofa þig og vegsama, þeir tæla þig". Þeir fara allir villir vegar, sem segja, að þú sjert öllum kirkjuþingum æðri og höfuð allrar kristninnar. Þeir fara villir vega, sem segja, að þú hafir einn vald til að þýða ritninguna; þeir hafa nafn þitt fyrir skálkaskjól til að fremja guðleysi á meðal kristinna manna. Í stuttu máli máttu engum trúa, sem vegsamar þig, en trúðu þeim, sem lægir þig. Það er dómur drottins, sem svo er ritaður: hinum voldugu víkur hann úr sæti, og setur þar aptur hina litilmótlegu".

Í brjefi þessu, sem maklega má kalla ráðningu, var mörg fyndni og meinyrði, og meðal annars komst *Lúter* þar á einum stað svo að orði: „Páfinn má með rjettu heita jarl Krists, því að jarlinn er einungis jarl, og aldrei (settur) nema í fjærvist hins rjetta höfðingja, en hinn rjetti höfðingi (Kristur) er vissulega mjög fjarlægur Rómaborg".

Þetta brjef hafði *Lúter* ritað með allri þeirri einlægni og alvörugefni, er honum bjó í brjósti,

og hið óviðjafnanlega traust hans styrkti hann og efldi til að fylgja fram fyrirtæki sínu, og það því heldur sem hann sá, að Þjóðverjar tóku æ meiri og meiri þátt í því. Riddarar tveir á Þýzkalandi, *Frants* frá *Sickingen* og *Sylvester* frá *Saumburg*, sem voru orðlagðir fyrir hreysti sína og hugrekki, rituðu honum, og hvöttu hann til að halda ótrauður á fram, og ef hann væri ekki óhultur um sig í *Wittenberg*, buðu þeir honum öruggan bústað í borgum sínum, og hjetu honum að verja hann með fjölda tignarmanna. Slíkt hið sama bauð honum *Ulrich von Hutten*, er var einhver frægasta hetja til framgöngu, og þó engu ófrægari rithöfundur. Við þessar undirtektir Þjóðverja óx *Lúter* svo hugur, að hann samdi rit það, er hann kallaði „Til tignarmannanna kristnu á meðal Þjóðverja um endurbót andlegrar stjettar". Í þessu riti skoraði hann á Þjóðverja að rífa sig undan yfirráðum rómversku kirkjunnar, taka frá páfanum vald það, er hann hafði þangað til haft yfir kirkjumálum á Þýzkalandi, svipta hann stórgjöldum þeim, er hann fjekk á ári hverju af kirkjunum á Þýzkalandi, leyfa klerkum aptur kvonfang, endurbæta munklífin, en leggja gjörsamlega niður klaustur hinna berfættu bræðra. Einnig hvatti hann Þjóðverja til að sætta sig aptur við Bæheims-búa *(Böhmere)*, með því að lýsa því yfir, að *Jóhan Husz*, landi þeirra og kennari, hefði verið svikinn í tryggðum og brenndur saklaus. Litlu síðar samdi

*Lúter* annað rit, er hann kallaði „Herleiðing kirkjunnar í Babýlon"; í því riti tók *Lúter* fram hartnær allar þær greinir í páfatrúnni, er *Lúters* trúarmenn sögðu síðar skilið við. Bæði þessi rit komu ósegjanlega miklu til leiðar, því þau bárust þegar út, og var þeim víða hlýtt; því höfðingjunum hafði lengi risið hugur við yfirráðum páfans, og þótt klerkar hrokafullir, þeir er bjuggu í löndum þeirra. Mörg klaustur voru þá lögð niður, margir andlegrar stjettar menn kvæntust, og syndalausnar-sölumenn voru alstaðar burtflæmdir, og háðuglega leiknir. *Tezel* hafði lengi dvalið í bæ þeim í Thüringen, er *Jüterbock* heitir, en þegar hann fór þaðan, veitti tignarmaður nokkur honum eptirför með öðrum fleirum, náðu þeir *Tezel* í skóginum, og beiddi sá, er fyrir þeim var, *Tezel* að selja sjer syndalausnarbrjef fyrir ódrýgðar syndir, og gjörði hann svo. Þegar tignarmaðurinn hafði fengið lausnarbrjefið, rjeðist hann og kompánar hans á *Tezel*, og tóku frá honum peningakistuna, og var hún engin ljetta vara, því hún var full af peningum. *Tezel* æpti hástöfum, og kallaði slíkt ofbeldi kirkjurán, þar sem þeir höfðu lagt ómildar hendur á páfafje. En tignarmaðurinn ljet sjer ekki bilt við verða, sýndi *Tezel* syndalausnarbrjefið, og sagði hlæjandi: „Þetta var syndin, sem jeg ætlaði mjer að drýgja". Síðan höfðu þeir kistuna heim með sjer. Þessi sama kista er enn til í ráðhúsinu í *Jüterbock*.

En kista sú, er *Tezel* varðveitti í syndalausnarbrjefin, stendur í dómkirkjunni í *Magdeburg*.

Nú víkur sögunni aptur til doktors *Ecks* og bannsetningarbrjefs þess, er hann hafði með sjer frá Rómaborg til Þýzkalands. Það var yfirsjón páfa, að hann hafði falið *Eck* á hendur, er var megnasti fjandmaður *Lúters*, að birta brjef þetta; því með því egndi hann Þjóðverja enn meir upp á móti sjer. *Eck* huggði gott til að svala geði sínu á *Lúter* með því að birta brjef þetta; en víðast hvar fjekk hann verri viðtökur á Þýzkalandi, en hann vænti, svo var *Lúter* þá þegar orðinn vinsæll. Víða bönnuðu höfðingjarnir *Eck* að festa brjefið upp; en þar sem það var fest upp, var það óðara rifið ofan aptur; svo var það í *Leipzig*. Eptir það varð *Eck* að fara þar huldu höfði, á meðan hann dvaldi þar, og flúði þaðan loksins fyrir stúdentum, sem höfðu hótað að drepa hann, ef þeir kæmust í færi við hann. Ekki var þó enn útsjeð um áhrif brjefs þessa, því allt var undir því komið, hvernig landshöfðingi *Lúters* snerist við því. Legátar tveir frá páfa, er hjetu *Aleander* og *Caraccioli*, og sem höfðu verið við staddir, þegar *Karl* keisari var krýndur í *Aachen* (Akken), kröfðust þess af Friðrik kjörherra í borg þeirri, er *Köln* heitir, að hann ljeti brenna bækur þær, sem *Lúter* hafði ritað, og annaðhvort hegna honum sjálfur, eða senda hann í böndum til Rómaborgar. En Friðrik var of drenglyndur höfðingi til þess, að níðast svo á *Lúter*, og svar-

aði Legátunum á þá leið, að hann sæi enga ástæðu til að brenna rit hans að svo komnu máli. En ef *Lúter* hefði orðið brotlegur í nokkru, þá ætti að kjósa lærða menn, guðhrædda og óvilhalla af jafningjum hans í nefnd, til að rannsaka málið, dæma um rit hans og atlıafnir, og síðan sannfæra *Lúter* með gildum ástæðum úr heilagri ritningu, en fyr kvaðst hann ekki geta gegnt kröfum þeirra. Ekki varð meiri árangur af þeirri tilraun, sem *Aleander* gjörði til að koma hinum nafnfræga *Erasmus* frá *Roterdam* til að rita í móti *Lúter*, því þó hann hjeti *Erasmus* stórfje til þess, var ekki við það komandi. Fundum þeirra Friðriks kjörherra og *Erasmus* bar saman í *Köln*, og spurði Friðrik hann um álit hans á málefnum *Lúters:* en hann svaraði kjörherranum fyrst þessum gamanyrðum: „Sú yfirsjón *Lúters* er verst, að hann hefur ráðizt á kórónu páfans og vambir munkanna“; síðan varð ræða hans alvarlegri, svo að hann lastaði aðfarir rómversku hirðarinnar, og sagði, að það væri óhugsandi, að sannleikurinn yrði dulinn eða brotinn á bak aptur með ofbeldi, því síður sem aldarbragurinn virtist leita hans bersýnilega. Með þessum ummælum sínum jók *Erasmus* enn meir álit *Lúters* hjá kjörherranum.

Eptir því sem fyrir var mælt í bannsetningarbrjefinu, voru rit *Lúters* brennd í *Antwerpen, Löwen, Mainz, Köln* og *Ingolstadt*, og undi alþýða því stórilla. Þessar aðfarir knúðu og *Lúter*

til að færast það í fang, sem hann hafði áður ekki dirfzt. Hann ljet festa upp opið brjef í *Wittenberg* og lýsti því þar yfir, að hann ætlaði að brenna upp ályktanir páfans og bannsetningarbrjef hans til sín að morgni hins 10. d. desemberm. 1520 fyrir utan *Elster*-hliðið í *Wittenberg*. Kom þar og saman í ákveðinn tíma fjölmenni mikið, allir doktorar í *Wittenberg* fylgdu *Lúter* þangað og allir stúdentar, sem hlóðu bálið, en meistari einn kveykti í því; síðan varpaði *Lúter* sjálfur á bálið bannsetningarbrjefinu, páfalögunum og ritgjörðum *Ecks*, og mælti þessum ritningarorðum um leið: „Fyrst þú hefur hryggt hinn heilaga drottins, þá kvelji þig og eyði þjer hinn eilífi eldur“. Æptu þá allir fagnaðar-óp, sem viðstaddir voru.

Það má nærri geta, hversu æfur páfinn varð og hinir aðrir andlegrar stjettar menn af þessum tiltektum *Lúters*. Legátar páfans báru sig hörmulega, og vissu ekki, hvað til bragðs skyldi taka; þeir buðu *Lúter* stórfje til að taka orð sín aptur, og láta aldrei framar á sjer kræla, en það var nú ekki að nefna. Þeir rituðu því páfa, að „óhemjan þýzka“ (svo kölluðu þeir *Lúter)* gengist hvorki fyrir fje nje metorðum. Viðlíka árangurslítil var tilraun þeirra, sú að myrða *Lúter*, og að koma honum til að taka orð sín aptur. Þeir höfðu látið byrla honum eitur, en hann var svo hraustur af sjer, að það grandaði honum ekki.

## 5. Melanchthon og Lúter.

Um þessar mundir eða nokkru fyr kom sá maður til *Wittenberg*, sem forsjónin hafði kjörið *Lúter* til aðstoðar í fyrirtæki hans. Þessi maður var hinn nafnfragi *Philippus Melanchthon*. Hann var fæddur í *Bretten* 16. d. febrúarm. 1497, og er það lítill bær í stórhertogadæminu *Baden*. Þar bjuggu foreldrar hans, var faðir hans vopnasmiður og steypti fallbyssur. Þau hjón hjeldu syni sínum þegar á unga aldri til guðs ótta og góðra siða, og því lærði *Philippus* snemma af kenningum þeirra og dæmi að hegða sjer svo, að hann vjek ekki af vegum drottins alla æfi, og traust hans á guði veitti honum þolgæði, hvernig sem veltist fyrir honum. *Philippus* var maður grannvaxinn og bjartur á hár, ennið var breitt og mikið, og augnaráðið vingjarnlegt. Ljettlyndur var hann og blíðlyndur, hógvær og lítillátur, kurteis í göngu og vel máli farinn og gætinn í ræðu, gáfaður ágætlega og iðnismaður hinn mesti. Hann var á 11. árinu, þegar hann missti föður sinn; eptir það annaðist föðurfaðir hans um kennara handa honum, þangað til hann fór í latínuskólann í *Pforzheim*. Maður er nefndur *Reuchlin*, einhver lærðasti maður á þeim dögum, hann var borinn í *Pforzheim*, og kom þangað optlega; honum fjell *Philippus* svo vel í geð, að hann fjekk þegar mætur á honum, þeir voru og skyldir. *Reuchlin* þessi gaf honum griska nafnið *Mel-*

*anchthon,* sem er orðrjett þýðing af ættarnafni *Philippusar,* er var *Schwarzerd;* því lærðir menn tíðkuðu þá mjög að snúa nöfnum sínum á grísku eða latínu.

Í *Pforzheim* tók *Melanchthon* svo miklum og bráðum framförum fyrir sakir gáfna sinna og iðni, að hann hafði aflokið skólanámi, þegar hann var á 13. árinu. Fór hann þá fyrst til háskólans í *Heidelberg* og síðan til háskólans í *Tübingen* (1512). Þar sá hann fyrst biflíuna, og hafði hún sömu áhrif á hann, sem á *Lúter.* Eptir það lagði hann jafnmikla stund á að kynna sjer ritninguna, eins og að iðka fornmálin (grísku og latínu), sagnafræði og heimspeki, sem voru þær vísindagreinir, sem hann var svo vel að sjer í, að *Erasmus* sá, er áður var getið, sagði um hann, að *Melanchthon* væri allra manna bezt að sjer í, þeirra er þá voru uppi. Þegar *Melanchthon* hafði dvalið 6 ár í *Tübingen,* var hann orðinn svo orðlagður fyrir lærdóm sinn, þó hann bæri hann aldrei utan á sjer, að Friðrik vísi tók hann fyrir háskólakennara í grísku í *Wittenberg* eptir tillögum *Reuchlins* frænda hans. Fyrst af öllum kynntist *Melanchthon* þar við *Lúter,* og þó þeir væru mjög ólíkir að skaplyndi, urðu þeir þó brátt aldavinir og hjeldu því til dauðadags. Í því voru þeir líkir hvor öðrum, að báðir elskuðu guð af öllu hjarta, og báðir lögðu jafnmikla stund á að fræða lýðinn um hinar helgu kenningar Krists og efla menntun alþýðu. En á hinn

bóginn voru þeir svo ólíkir, að svo leit út, sem forsjónin hefði ætlazt til, að hvor um sig skyldi bæta það upp, sem hinum var áfátt í; því eins og *Lúter* var ákafur, uppstökkur, þrekmikill og jafnvel framhleypinn á stundum, eins var *Melanchthon* hógvær, blíðlyndur, lítilsigldur og aðgætinn. Þess konar menn þurfti til að framkvæma slíkt stórvirki, sem siðabótin var. Þó mundi *Melanchthon* einn aldrei hafa komið henni fram, hversu fróður sem hann var og vel að sjer, en aptur á móti mýkti hann með blíðlyndi sínu ákaflyndi *Lúters*. *Melanchthon* fann það líka ofur vel, að hann skorti hugrekki *Lúters* og öruggleika; aptur á móti dró *Lúter* ekki dulur á það, að *Melanchthon* var betur að sjer og stilltari; því svo segir hann á einum stað: „Jeg á að virða það við hann *Philippus* minn (því hann kallaði hann optast „*Philippus* sinn") eins og annað fleira, að hann kennir mjer grísku. Þó jeg sje eldri en hann, þykist jeg ekki upp úr því vaxinn að nema af honum. Jeg segi það satt, hann er fróðari en jeg, og jeg fyrirverð mig ekki að játa það". Ágætlega hefur *Lúter* komizt að orði, þar sem hann er að lýsa, hversu gáfnalagi þeirra *Melanchthons* sje misjafnt farið, og fer hann um það þessum orðum: „Jeg er fæddur til að ganga í berhögg við þessa samsærismenn og djöfla, og verð þráfaldlega að eiga í þjarki við þá; því eru líka ritin mín eins og þau eru, ákafafull og vígleg. Jeg hlýt að upp-

ræta alla stofna, höggva upp alla þyrna og þverrunna, og fylla upp foræðin; jeg er stórvirkur að skógarhögginu, svo að jeg geti rutt veginn og gjört hann skíran. En *Philippus* meistari fer svo vægilega að öllu og stillilega: hann yrkir og gróðursetur, sáir og vökvar lystilega, því guð hefur gefið honum svo góð tök á því". Aptur á móti virti *Melanchthon Lúter* svo mikils, að hann tók engan mann til jafns við hann. Í ritum sínum kallaði hann *Lúter* ekki annað en „doktorinn". Hann sló ávallt undan *Lúter* og vægði fyrir honum í öllu. Um það fer *Melanchthon* þessum orðum í brjefi einu, sem hann ritaði nokkru eptir dauða *Lúters:* „Þó *Lúter* væri mannkostamaður mikill, var hann þó ákaflyndur og uppstökkur. Jeg varð opt að hlýða honum, eins og jeg væri þjón hans, af því hann fór á stundum minna að virðingu sjálfs sín og almennings hag, en ákaflyndi sínu. Ekki var honum heldur mikið um það gefið, ef menn voru ekki samdóma skoðun hans".

Hvílíkur maður *Melanchthon* hafi verið, sjest einna ljósast á því, að frægð sú, er barst af *Lúter* á seinni árum hans, skaut engum skugga á *Melanchthon.* Einkum fannst mönnum mikils vert um starfsemi hans, svo óhraustur sem hann var þó til heilsu, hversu djúpsær hann var í rannsóknum sínum, hversu ljóslega hann kom orðum að því, sem hann vildi lýsa, og hversu glaðlega og rólega hann varð við mótmælum fjandmanna

sinna. Báðum þeim, *Lúter* og *Melanchthon*, var það að þakka, að háskólinn í *Wittenberg* varð einhver hinn frægasti á þeirra dögum; því að ungir menn sóttu þangað úr öllum áttum til að nema af þeim, og opt hlýddu fleiri en 2000 tilheyrendur á fyrirlestra *Melanchthons* í einu, og það með svo miklu athyggli, að maður nokkur, sem einu sinni heyrði fyrirlestra hans, sagði, að lærisveinarnir hefðu ekki getað tekið betur eptir kenningum Krists, en stúdentarnir í *Wittenberg* hefðu tekið eptir fyrirlestrum *Melanchthons*. Enda var honum flestum mönnum betur lagið að koma skiljanlega og skemmtilega orðum að efninu. Því var ekki heldur kyn, þó honum leiddust frátafirnar frá kennslunni, eins og hann segir sjálfur: „Einskis vildi jeg heldur æskja, en að jeg þyrfti aldrei að ómaka mig burt úr kennslusal mínum, og að jeg mætti halda á fram tafarlaust að kenna ungum mönnum. Það er yndi og eptirlæti. Til annara hluta er jeg miður fallinn og of deigur". Hann gjörði og hið mesta gagn með því, að hann kom vísindum þeim, sem þá voru kennd, svo haganlega fyrir, hann ritaði hæfilegar kennslubækur og fann kennslu-aðferð betri, en þá sem áður hafði tíðkazt, einkum í fornmálunum. Svo má að orði kveða, að *Melanchthon* hafi verið sá fyrsti, sem kenndi grisku í norðurhluta Þýzkalands, svo að gagn væri að. Hann ritaði málfræði í grisku, sem var 28 sinnum prentuð, og aðra í latínu, og var hún 32 sinnum

prentuð. Enn fremur ritaði hann bók um hugsunarfræði, aðra um siðafræði, þriðju um málsnilldarlist, fjórðu um skáldskap, fimmtu um náttúrufræði, og eru þær allar ágæt rit frá þeim tímum.

## 6. Ríkisþingið í Worms. Lúter situr í Wartburg, fer þaðan og sefar myndbrotamenn og trúarvinglsmenn.

Þegar *Karl* keisari hinn fimmti með því nafni á Þýzkalandi var seztur þar að ríkjum, og hafði tekið við allri stjórn, stefndi hann öllum höfðingjum Þýzkalands á ríkisþing í borg þeirri, er *Worms* heitir, 1521, og byrjaði fundur sá fáum vikum eptir að *Lúter* hafði brennt bannsetningarbrjef sitt. Ekki hafði jafnfjölmennur og vegsamlegur fundur verið haldinn á Þýzkalandi um langa tíma. Var þar tekin til umræðu stjórnarlögun ríkisins, einnig skyldi þar ræða um ríkisdóminn, um landsfriðinn og um Rómferðir. En næsta lítið var þó rætt um öll þessi málefni, hjá því sem um kirkjumálið mikla, sem öllum lá svo þungt á hjarta. Áður en keisarinn fór á þingið í *Worms*, hafði hann ritað Friðrik kjörherra brjef, og beðið hann að hafa *Lúter* með sjer þangað, svo að þar yrði útkljáð um mál hans. En Friðrik mælti *Lúter* undan því; því að hann óttaðist, hvernig fara mundi. En *Lúter* sagði við Friðrik kjörherra: „Ef jeg verð boðaður á þingið í *Worms*, skal jeg kosta alls kapps um að fara þangað,

og jafnvel láta bera mig, ef jeg verð svo veikur, að jeg sje ekki ferðafær; því víst er það vilji guðs, að jeg fari þangað, ef keisarinn kallar mig, því skal hvorki hætta nje heilsufar hamla mjer þeirrar ferðar". Páfinn sendi legáta sinn, *Aleander*, þann er áður var getið, á ríkisþingið, og átti hann að kæra *Lúter* þar. Legátinn mótmælti því af alefli, að *Lúter* væri boðaður á þingið; því að honum þótti það ósamboðið virðingu hins rómverska stóls og rjettindum hans, að sakfelldum villumanni gæfist kostur á að verja mál sitt fyrir veraldlegum dómi, og það því heldur sem nú var samið nýtt bannsetningarbrjef, og í því brjefi var *Lúter* dæmdur sekur hlífðarlaust, og verndarmenn hans og fylgismenn, og heldur óvægilega að orði kveðið. En svo var þá þegar áliti páfans farið að hnigna á Þýzkalandi, að menn skeyttu ekki mótmælum legátans, og keisarinn boðaði *Lúter* á þingið að tilmælum stjettanna, hvað sem *Aleander* sagði. Skyldi *Lúter* vera þar kominn innan 3 vikna. Þó samþykkti ekki Friðrik kjörherra ályktun þessa af sinni hálfu, fyr en keisarinn gaf *Lúter* griðabrjef, svo að hann mætti fara óhultur fram og aptur. Síðan var stefnan send *Lúter*, og bjóst hann þegar til ferðar. Yfirvöldin í *Wittenberg* fengu honum vagn til ferðarinnar, en Friðrik kjörherra herkallara til fylgdar. Þegar *Lúter* kvaddi *Melanchthon*, mælti hann til hans þessum orðum: „Ef fjandmenn mínir myrða mig,og jeg kem ekki

aptur, þá skora jeg á þig, bróðir kær, að þú haldir eigi að síður fast á sannleikanum og kennir hann. Starfaðu einnig fyrir mig, á meðan jeg er í burtu. Þú getur gjört það enn betur en jeg; því er ekki heldur svo mikils misst, þó jeg fari, því þú verður þó eptir. Þar á drottinn góðan stríðsmann, sem þú ert, og miklu betur að sjer“.

Síðan fór *Lúter* frá *Wittenberg*, og fylgdu honum vinir hans 4 og herkallarinn hinn 5., þeir voru allir glaðir og óragir. Þessi ferð *Lúters* frá *Wittenberg* til *Worms* var sannkölluð sigurför, að því einu undan skildu, að hann varð veikur á leiðinni: því fólk þyrptist að úr öllum áttum til að sjá þann mann, er svo var víðfrægur orðinn. Þegar *Lúter* átti 2 mílur til *Erfurt*, komu 40 riddarar í móti honum og fjöldi manna fótgangandi, til að votta honum virðingu sína og fylgja honum til bæjarins; og á hinum sömu stöðvum, sem hann hafði áður farið um með beiningapoka á bakinu, var honum nú heilsað og beðinn velkominn með hárómuðu fagnaðarópi af bæjarbúum. Ekki hættu þeir heldur fyr við hann, en hann hjelt þar ræðu í heyranda hljóði yfir ótölulegum mannfjölda. Um þetta leyti vöruðu nokkrir vinir hans hann við að fara ekki til *Worms*, því að þar mundi hann verða brenndur á báli. En hann svaraði þeim á þessa leið: „Þó bál væri búið til svo mikið, að það tæki frá *Wittenberg* til *Worms* og allt í himin upp, skyldi jeg þó fara allt að einu í drottins nafni“. Þegar *Lúter* kom til

*Oppenheim*, fjekk hann brjef frá *Spalatin*, sem hafði fylgt herra sínum á ríkisþingið; í því brjefi bað hann *Lúter* að koma ekki til *Worms*, því þar væri honum hætta búin. En *Lúter* var svo öruggur, að hann svaraði *Spalatin* aptur þessu: „Þó að eins margir djöflar væru í *Worms*, sem þar eru steinar margir í húsþökunum, skal jeg þó koma allt að einu“.

16. dag aprílmánaðar 1521 kom *Lúter* til *Worms*. Fjöldi fólks hafði farið úr borginni í móti honum, sumir á vögnum, sumir ríðandi og sumir gangandi. Þegar *Lúter* kom inn í bæinn, voru fleiri en 2000 manns með vagni hans. Daginn eptir, 4 stundum eptir hádegi, kom ríkisdróttsetinn eptir honum, til að sækja hann á þingið. Voru þá öll húsþök full af mönnum, og mannþyrpingin svo mikil fyrir utan hús það, er *Lúter* var í, að dróttsetinn varð að fara með hann aðra leið í gegnum mörg hús og garða til að komast á fram; svo var mannfjöldinn mikill. Þegar þeir *Lúter* komu að þingsalsdyrunum, stóðu þar riddarar nokkrir. Einn þeirra hjet *Georg Frundsberg*, var það dugandis hermaður; hann klappaði á herðarnar á *Lúter* og mælti: „Munkur minn góður! þú átt nú svo snarpa orustu fyrir höndum, að hvorki jeg nje margir aðrir hermenn munu hafa komizt í jafnkrappan danz. En ef þú hefur á sönnu að standa, og þú hefur öruggan málstað, þá haltu á fram í guðsnafni og vertu óhræddur; drottinn mun ekki yfirgefa þig“.

*Lúter* jókst hugur við þetta ávarp; því ef satt skal segja, varð hann heldur felmtraður, þegar hann hugsaði til þess, að hann átti að standa fyrir máli sínu fyrir dómi keisarans og ríkishöfðingjanna allra. Þessu næst var þingsalnum lokið upp, og gekk hann þar inn. Fleiri en 5000 manns stóðu í salnum, forsalnum og við gluggana, og störðu þeir á hann allir, því öllum var forvitni á að sjá *Lúter*. Gagnvart sjer, í hinum endanum á salnum, sá *Lúter*, hvar *Karl* 5. sat í hásæti í öllum keisaraskrúða, en utar frá honum á tvo vegu sátu hertogar, höfðingjar og greifar úr Þýzkalandi öllu; svo var þar sætum skipað. Allmisjöfn áhrif hafði *Lúter* á ríkisfundarmenn, þegar hann gekk inn í salinn; enda var hið ytra útlit hans ekki álitlegt, þar sem hann var þrekaður eptir ferðina og fölur eptir veikindin. *Karl* keisari sagði líka við þann, er næstur honum sat: „Laust trúi jeg því, að þessi maður gjöri mig að villumanni". En þó var auðsjeð á augnaráði margra, að þeim var annt um *Lúter*. Þeir, sem næstir honum stóðu, hvísluðu að honum, að hann skyldi ekki láta sjer hugfallast og ekki óttast þá, sem að eins gætu deytt líkamann. Síðan gekk ríkisdróttsetinn fram, og spurði *Lúter*, hvort hann kannaðist við, að hann hefði samið bækur þær, sem lágu fyrir honum á borðinu, og þegar *Lúter* játaði því, spurði dróttsetinn hann aptur að, hvort hann vildi kalla aptur kenningar þær, sem í bókunum væru. Það

var eins og síðari spurningin kæmi flatt upp á hann, svo að hann bað um frest til umhugsunar, og veitti keisarinn honum hann.

Þegar *Lúter* var kominn aptur af þinginu, gat hann ekki dulið það fyrir sjálfum sjer, hversu örðugt sjer mundi veita, að verja álit sitt fyrir keisaranum og öllum ríkishöfðingjum Þýzkalands. En traust hans á guði, sem lýsir sjer svo fagurlega í sálminum „Óvinnanleg borg er vor guð", sem hann hefur gjört, veitti honum hugrekki að nýju, til að tala máli sannleikans við hvern, sem um var að eiga. Þegar hans var vitjað daginn eptir, var öllum forvitni á að heyra ályktarsvar *Lúters*. Í þetta sinn varð hann að bíða 2 stundir í forsalnum, áður en upp var lokið. Þegar *Lúter* kom inn í salinn, var hann allur ljósum prýddur, en ekki logaði óglaðar löngunin í brjósti hans til að játa sannleikann með hugdirfð. Síðan tók hann þannig til máls: „Allramildasti keisari, mildustu kjörherrar og hæstvirtu höfðingjar, jeg er hingað kominn í ákveðinn tíma, sem mjer var settur í gærkvöldi, og beiðist þess fyrir guðs miskun, að yðar hátign hlýði náðarsamlega á mál mitt, er jeg skal flytja sem sannast og rjettast; einnig bið jeg yður að virða mjer til vorkunar, þó jeg sökum fáfræði minnar veiti ekki sjerhverjum yðar þá virðingu, sem ber, eða þó viðmót mitt og látbragð sje öðruvísi, en hirðsiðir, sem vel má verða, þar sem jeg hef aldrei umgengizt hirðmenn, en alið aldur minn í

klaustri, og get því ekki annað um mig sagt, en að allt, sem jeg hef kennt öðrum og ritað í einfeldni, hafi einungis lotið að því, að efla dýrð drottins, og gagn og sáluhjálp kristinna manna, svo að þeir gætu numið kenningar Krists ómeingaðar og óafbakaðar“. Því næst fór hann nokkrum orðum einarðlegum og þó kurteislegum um bækur þær, sem hann hafði ritað. Allt þetta mælti hann á Þýzku. Þá var honum gjörð sú vísbending, að keisarinn skildi ekki til hlýtar þýzka tungu, og endurtók hann þá alla ræðu sína að nýju á latínska tungu, þó hann tæki það mjög nærri sjer sökum yss þess, er var í salnum, og þess, að hann stóð svo nærri slíkum höfðingjum, sem þar voru samankomnir. Loksins tók einn andlegrar stjettar maður fram í (það var biskupinn frá *Trier)*, og bað *Lúter* að segja með fáum og skírum orðum, hvort hann vildi taka orð sín aptur, eða ekki. „Hana þá“, sagði *Lúter*, „fyrst að yðar keisaraleg hátign og þjer, hinir mildustu kjörherrar og höfðingjar, beiðizt beinna og ljósra svara, þá mun jeg gefa yður það svar, sem tekur af öll tvímæli, og er það þannig: „Jeg trúi hvorki á páfann nje kirkjuþingin; því hvorttveggja hefur of opt brugðizt til þess og mótmælt sjálfu sjer. Jeg get því ekki, og vil ekki taka nokkurt orð mitt aptur, nema því að eins, að jeg verði sannfærður annaðhvort með orðatiltækjum heilagrar ritningar eða öðrum órækum ástæðum; því það er hvorki óhætt nje ráðlegt að ganga

í móti samvizku sinni. Jeg stend hjer; öðru get jeg ekki svarað; guð hjálpi mjer! Amen".

Þessi játning *Lúters* fjell mörgum höfðingjanna mæta vel í geð, og öðrum þeim, er á heyrðu, einmitt vegna þess að hún var hreinskilin og berorð. Friðrik kjörherra gladdist einkum af því, hversu vel *Lúter* hafði stillt orð sín, og sagði, um leið og hann gekk af þinginu: „Hversu fagurlega fórust ekki föður vorum *Lúter* orð í dag, er hann stóð fyrir keisaranum og ríkishöfðingjunum, ekki skorti hann einurð, og jeg veit ekki, nema hann hafi haft hana of mikla". Þegar *Lúter* hafði talað út, var honum leyft að fara ótálmað af þinginu, og sama kvöldið sendi Eiríkur, hertogi í *Brunsvig*, honum silfurkönnu fulla af öli til að hressa sig á, og þó var Eiríkur einhver hinn rammasti páfatrúarmaður. „Hver er höfðingi sá", sagði *Lúter*, „sem minnist mín svo náðuglega"? Þegar menn nefndu honum Eirík hertoga og sögðu honum um leið, að hann hefði sjálfur drukkið áður af könnunni, óttaðist *Lúter* ekki lengur drykkinn, og sagði: „Eins og Eiríkur hertogi hefur minnzt mín í dag, eins minnist Kristur, drottinn vor, hans, er hann berst hinni síðustu baráttu". Þessara orða *Lúters* minntist og hertoginn síðar, þegar hann lá banalegu sína. Margir höfðingjar heimsóttu *Lúter*, á meðan hann dvaldi í *Worms*, og fyrir

utan húsið var sífeld mannþyrping, sem vildi sjá hann.

Þegar útsjeð var um það, að *Lúter* vildi ekki taka orð sín aptur, voru nokkrir höfðingjar í nefnd kjörnir, sem áttu að tala *Lúter* hughvarf, og koma honum á aðra skoðun. En hann sat við sinn keip, og svaraði þeim með hinum fögru orðum, sem *Gamalíel* svaraði Gyðingum forðum: „Ef þetta eru mannaverk, munu þau brátt verða að engu; en ef það eru guðsverk, mun yður ekki tjá í móti að rísa". Og komandi tímarnir sýndu ljóslega, að það voru guðsverk, en ekki manna, sem *Lúter* fylgdi fram.

Loksins var *Lúter* boðið að fara í burt frá *Worms*, og að bíða málalokanna annarstaðar. Vildu þá margir höfðingjar, einkum andlegrar stjettar menn, koma keisaranum til að rjúfa grið þau, er hann hafði heitið *Lúter*, og fara eins með hann, og farið var áður með *Husz;* en aðrir voru með öllu mótfallnir þeirri uppástungu, og þar á meðal var *Georg* hertogi á Saxlandi, sem þó var að öðru leyti megnasti fjandmaður *Lúters*, og keisarann sjálfan bauð við slíkum griðarofum. 26. dag aprílm. fór *Lúter* af stað, og bar ekkert til tíðinda á þeirri ferð, fyr en 4. dag maím. Daginn áður hafði *Lúter* dvalið í *Möra* hjá skyldmennum sínum og vinum. Þennan sama morgun lagði hann af stað þaðan; en skammt var hann kominn, þegar 5 riddarar í dularbúningi þeystu fram á hann, stöðvuðu ferð hans,

hófu hann upp úr vagninum, og ljetu hann stíga á bak hesti einum og hleyptu með hann í skóginn, en lofuðu fylgdarmönnum hans að fara leiðar sinnar. Síðan fóru þeir með hann viðs vegar um skóginn, þangað til þeir námu staðar einni stundu fyrir miðnætti hjá fjallbæ gömlum og víggirtum; þar þekkti *Lúter* þegar *Wartburg*, er liggur skammt frá *Eisenach*. Átti *Lúter* þar góða daga, og var það því auðsjeð, að ekki höfðu fjandmenn hans sent hann þangað í gæzlu, heldur kjörherrann, vinur hans, sem hafði skotið honum undan, svo að fjandmenn hans skyldu því heldur hugsa af honum. Að öðru leyti er það alllíklegt, að Friðrik kjörherra hafi lagt þetta undir við *Lúter*, áður en hann fór frá *Worms*. *Lúter* reið og því meir á að vera ekki á almannafæri, sem fjandmenn hans höfðu komið svo máli sínu við keisarann, að hann lýsti óhelgi yfir *Lúter*, mánuði eptir að hann fór frá *Worms*. Í óhelgisskránni, sem *Aleander* hafði samið, var þannig að orði kveðið: „Enginn má hjeðan í frá hýsa *Lúter* eða veita honum mat eða drykk, bækur hans má og enginn kaupa nje selja, lesa nje í húsum hafa, skrifa þær upp nje prenta, eða láta skrifa upp og prenta“. Á þennan hátt var ekki einungis *Lúter*, heldur og allir þeir, er honum vildu ásjá veita, sviptir öllum rjettindum mannfjelagsins; því að, ef þeir veittu honum í nokkru, skyldi hinn sami dómur yfir þá ganga, sem *Lúter* sjálfan.

Meðan *Lúter* dvaldi í *Wartburg*, kallaði hann sig *Jürgen* riddara; hann ljet sjer vaxa hár og skegg, svo að hann yrði því torkennilegri. Enginn vissi, hvar hann var niður kominn, nema þeir *Melanchthon* og *Spalatin*. Aðrir hjeldu, að hann væri dauður, eða hefði komizt í hendur fjandmanna sinna, þangað til ritgjörðir nokkrar, er á gang komu, sýndu það, að *Lúter* var enn lífs, en engum var að heldur kunnugt um bústað hans. Þó *Lúter* hefði allt, sem hann vildi hendinni til rjetta í *Wartburg*, og þar á meðal bækur og skriffæri, og mætti fara endrum og sinnum á dýraveiðar, þjáðist hann þó mjög af leiðindum, og sárlangaði aptur til *Wittenberg*; því þar er allur, sem unir. Hann hafði af fyrir sjer með sífeldri starfsemi. Þar kom honum fyrst til hugar að þýða alla ritninguna á þýzka tungu, og lauk þar líka við Mósisbækurnar fimm og Nýja Testamentið. Enn þá eymdi töluvert eptir af hjátrú þeirri hjá *Lúter*, sem hann hafði numið á unga aldri, og því ímyndaði hann sjer, að djöfullinn vildi tálma störfum sínum, og að hann sæi hann á stundum. Það var eitt kvöld, segir sagan, er *Lúter* skrifaði í ákafa, að hann þóttist sjá kölska í einu horninu á herbergi sínu og sýndist honum hann ógna sjer. Greip *Lúter* þá blekbyttuna, og snaraði henni þangað, sem hann þóttist sjá djöfulinn, og hvarf hann þegar. Til eru og langtum fleiri sögur um slíkar djöflaárásir, og varðist *Lúter* þeim, eins og öllu öðru mót-

drægu, sem fyrir hann kom, með bæn og öruggu trausti til guðs.

Hin miklu áhrif, sem rit *Lúters* höfðu haft á Þjóðverja, gjörðu hann nú svo öruggan, að hann óttaðist ekki framar nokkurt veraldlegt vald; því hann þóttist hafa bersýnilega þreifað á guðlegri aðstoð. Hann fór líka að tala til konunga og höfðingja í þeim anda, sem vinum hans hinum gæfari gat ekki geðjazt að, en það jók þó mest álit hans hjá alþýðu. *Albrecht* kjörherra í *Mainz*, sá er áður var getið, hafði verið svo grunnhygginn, að senda annan mann til *Halle*, til að láta þar fala syndalausn; af því hann hjelt, að nú væri allur dugur drepinn úr *Lúter*. En þegar *Albrecht* varði minst, ritaði *Lúter* honum á þá leið, að hann hefði hingað til hlíft honum og *Brandenborgar*-ættinni, af því hann hefði kennt vanvizku hans og fáfræði um þessar aðfarir hans, en nú bað *Lúter* hann gæta þess, að ef hann hætti ekki guðleysi sínu, skyldi hann ekki heldur spara hann en páfann, og krefja hann til ábyrgðar um óhæfu þá alla, er *Tezel* hafði aðhafzt, og gjöra um leið öllum kunnugt, hver munur væri á biskupi og úlfi. Hann kvaðst vænta svars að 14 daga fresti; en fengi hann ekkert svar um það, hótaði hann að láta prenta bók „um guðleysingjann í *Halle*". Hvort sem *Albrecht* kjörherra hefur skelfzt við brjef þetta, eða hann hefur látið sigrast af afli sannleikans, er ekki unnt úr að ráða; en því svaraði hann

*Lúter* aptur, að orsökin, sem hefði knúið *Lúter* til að rita sjer þetta brjef, væri nú upprætt; hann hjet og að hegða sjer eptirleiðis, eins og kristnum, guðræknum og andlegum höfðingja hæfði. Litlu síðar ritaði *Lúter* Hinrik konungi áttunda á Englandi brjef, og var það miklu þungyrtara; það brjef ljet *Lúter* og prenta. Hinrik konungur var lærður maður og vel að sjer í skólaspeki; metnaðargjarn var hann, og því hafði hann tekið þátt í trúarbragðadeilunni á Þýzkalandi. Hinrik hafði annaðhvort sjálfur skrifað, eða látið annan lærðan mann í ríki sínu skrifa aðfinningu við það rit *Lúters*, sem hann kallaði „Herleiðinguna í Babýlon", og áður er getið; einkum varði Hinrik í bæklingi sínum hin 7 sakramenti Páfatrúarmanna, því hann ætlaðist til að fá andlega nafnbót af páfa fyrir ómakið, eins og Spánar og Frakkakonungar höfðu áður fengið. Þessi tilætlun hans heppnaðist líka eptir vonum; því páfinn gaf honum nafnbótina „trúarverndari". Í þessu riti Hinriks voru *Lúter* valin óþvegin smánaryrði; en nú galt hann konungi aptur í sama mæli, og áleit hann hinn fyrirlitlegasta allra mótstöðumanna sinna. Þó segja það sumir menn, að *Lúter* hafi síðar friðmælzt við Hinrik konung, en að hann hafi þá svarað *Lúter* aptur drembilega.

Þegar *Lúter* hafði dvalið hjer um bil eitt ár í *Wartburg*, yfirgaf hann þetta hæli sitt, af því að honum bárust fregnir um óspektir frá *Wittenberg*. Ekkert var honum það í móti skapi,

þó munkar þeir á Saxlandi, sem hjeldu Ágústínusreglu, hættu messum og yfirgæfu klaustrin, eða þó andlegrar stjettar menn kvæntust; þetta líkaði *Lúter* vel, ef skynsamlega var að því farið. En hitt gramdist honum', að um þessar mundir tók doktor *Karlstadt* að verða æði svæsinn; hann lagði lag sitt við óhlutvanda menn og svallara, og gjörðist svo djarftækur. að hann og fjelagar hans lögðu ekki einungis niður alla háttsemi hinnar rómversku trúar, heldur brutust þeir inn í kirkjur, köstuðu út myndum helgra manna óþyrmilega, brutu ölturin og börðu munkana. En þó var það trúarvingl enn verra og ísjárverðara, sem kom upp um sömu mundir í *Zwickau*. Klæðavefari nokkur, *Nikulás Storch* að nafni, þóttist hafa fengið guðlegan innblástur, og hafði safnað að sjer flokki manna, sem trúðu honum til alls, er hann kom upp með. Aðalatriðið í kenningum þessara trúbótarmanna var það, að þeir álitu barnaskírn ógilda. Nokkrir af fylgismönnum *Nikulásar* komu til *Wittenberg*, og umhverfðu þar svo öllu, að *Melanchthon* varð jafnvel hugsjúkur og efablandinn bæði af ástæðum þeim, er þeir báru fyrir sig, og efasemdum þeim, er þeir hreifðu. *Karlstadt* gekk líka í flokk með þeim. Um allt þetta fannst mönnum mikið á Þýzkalandi, og þó engum jafnmikið sem *Lúter;* því að hann óttaðist, og það ekki um skör fram, að þetta mundi hafa verstu eptirkost fyrir siðabótina, og að kenningum sínum

mundi verða um kennt; en hann var líka sannfærður um, að sjer mundi takast að afstýra þessari óhæfu, ef hann færi til *Wittenberg*. Hann hafði því hvorki frið nje ró, fyr en hann kom þangað; hann ljet það ekkert aptra sjer, þó kjörherrann rjeði honum frá þessu fyrirtæki, eða jafnvel bannaði honum með öllu að fara frá *Wartburg*. Hann lagði á stað, og ritaði kjörherranum, þegar hann var kominn á leiðina, og hafa menn dáðzt að einurð þeirri, sem í því brjefi er, og sem auðsjáanlega er sprottin af því, að hann treysti svo vel málstað sínum. En þetta er kafli úr brjefinu: „Jeg hef gjört nóg, þar sem jeg hefi einu sinni látið undan kjörherranum; ef jeg læt enn undan, mun djöfullinn þegar geisa yfir allt. *Georg* hertogi á Saxlandi var verri en nokkur djöfull, en þó að steypirigning væri í *Leipzig* í samfleytta 9 daga, og engu rigndi öðru en eintómum *Georgum*, og hver þeirra væri 9 sinnum óhemjulegri, en þessi *Georg* er, skyldi jeg þó allt að einu fara til *Leipzig*, ef þar væri eins ástatt, og nú er í *Wittenberg*. Kjörherranum sje það og kunnugt, að jeg fer til *Wittenberg* í orðlofi þess, sem er miklu æðri, en hann. Jeg æski þess alls ekki, að kjörherrann verji mig, þar eð jeg get betur varið hann, en hann mig; því guð einn er sá, sem veitir vörn í þessu máli. Sá sem hefur trúna öruggasta, hann má sjer mest; en af því mjer virðist kjörherrann veiktrúa, treysti jeg honum ekki til að verja mig“. Síðan kom

*Lúter* til *Wittenberg* aptur (7. d. marzm. 1522), og hjelt hegningar ræður í 8 daga samfleytt yfir óreglum þeim, sem við höfðu gengizt í fjærvist hans, svo kröptugar og áhrifa miklar, að öllum óspektum linnti á skömmum tíma.

Keisarinn hafði farið úr Þýzkalandi, þegar er ríkisþinginu var lokið í *Worms*. Hann fór fyrst til Hollands, og þaðan til Spánar, og þar dvaldi hann hart nært 8 ár. Þessi fjærvist *Karls* keisara frá Þýzkalandi studdi mjög að eflingu siðabótarinnar; því nú fór hún að færast út fyrir Saxland, einkum fjellust menn á hana í stærri bæjunum. Ríkisráðið, sem keisarinn átti að vera forseti fyrir, hafði aðsetur sitt í *Nürnberg*, og var næsta afskiptalítið, enda áttu þar margir sæti, sem voru hlynntir hinni nýju kenningu, og því var ekki að undra, þó ríkisstjórnarráðið annaðhvort gleymdi, eða leiddi hjá sjer að fylgja fram óhelgisskrá *Lúters*, sem birt var í *Worms*, og það jafnvel þó 2 páfar, hvor eptir annan, krefðust þess 1522 og 1524. Í fyrra sinni gegndu ríkisstjettirnar alls ekki kröfu þessari, en báru upp 100 kærugreinir af hendi Þjóðverja yfir ósiðum þeim, sem viðgengust í kristninni, og æsktu almenns kirkjuþings til að ráða bót á þeim hið bráðasta. Í seinna sinni, þegar *Klemens* páfi hinn 7. ljet krefjast hins sama á ríkisþinginu í *Nürnberg* (1524), kváðust ríkisstjettirnar skyldu haga sjer eptir fyrirmælum óhelgisskrárinnar, „að svo miklu leyti sem því yrði við komið“.

## 7. Bændastríðið, Thomas Münzer. Samtök Páfatrúarmanna og Lúterstrúarmanna, ríkisþingið í Speier; siðabótin lögleidd á Saxlandi, í Hessen og víðar.

Árið eptir þetta ríkisþing, sem síðast var getið, var næsta róstusamt í suðurhluta Þýzkalands, og ollu því bændur, sem opt höfðu vakið líkar óeirðir á miðöldunum sökum alls konar kúgunar, er þeir urðu að sæta af höfðingjum, tignum mönnum og andlegrar stjettar mönnum. Við hina síðast töldu var bændum þó allra verst; því þeir sáu daglega, hversu sællega og óhóflega klerkar lifðu. Bæði höfðu bændur gjört óspektir 1502 og 1514, af sömu orsökum og í þetta sinn, og því er engin ástæða til að kenna uppnám þetta siðabótinni. Reyndar verður það ekki varið, að hún hefur, ef til vill, stutt nokkuð að því; því hætt er við, að bændur hafi ímyndað sjer, að frelsi það, sem *Lúter* barðist fyrir í trúarefnum, ætti líka að eiga sjer stað í veraldlegum efnum.

Þegar með nýári 1525 risu upp þegnar 4 andlegra höfðingja og nokkurra veraldlegra, og gjörðu mikinn usla og óskunda sunnan til á Þýzkalandi. Var þá sendur her manns í móti þeim, og dugandis hershöfðingi, sem reyndar sigraðist á bændamúgnum, og tvistraði liði þeirra; því þeir voru óvanir heraga, og skorti góða hershöfðingja.

En bændur söfnuðu óðara flokki sínum aptur, sá þá hershöfðinginn, sem í móti þeim var sendur, þann kost sinn beztan að semja við þá. En sá samningur kom að litlu haldi, því bændur sömdu nokkurs konar auglýsingu, er kölluð var „tólf greinir bænda"; í henni kröfðust þeir að mega kjósa presta sína sjálfir; að ekki væri heimtuð af þeim kvikfjár tíund, og að þeir mættu veiða, og yrkja skógana eptir þörfum, skattar og kvaðir skyldu vera, sem að fornu hefðu verið; enn fremur kröfðust þeir óvilhallrar dómgæzlu. Um allt þetta ljetust þeir vilja semja friðsamlega, og ekki ásælast velfengna eign nokkurs manns. Að síðustu buðust þeir til að sleppa öllum þeim kröfum, sem enginn fótur væri fyrir í ritningunni. Greinir þessar voru kænlega samdar, og í fyrsta áliti hóflega heimtufrekar; og svo þótti mikið um þær vert, að þær voru sendar *Melanchthon* í *Wittenberg*, að hann segði álit sitt um þær. En hann var þeim mjög mótfallinn, af því hann var maður friðsamur, og illa við allt, sem honum þótti kenna ofríkis. Aptur á móti höfðu bændur sjálfir beðið *Lúter* að segja álit sitt um málefni þeirra, og hvatti hann hvoratveggja, sem hlut áttu að máli, til friðar, og átaldi þá hlutdrægnislaust. Til höfðingjanna sagði hann meðal annars: „Engum öðrum er að kenna um alla þessa óhæfu og upphlaup, en yður, höfðingjunum, og einkum yður, biskupum, sem blindir eruð, og yður, hamslausum prestum og munkum, sem eruð allt

til þessa svo harðsvíraðir, að þjer hafnið hinum helgu kenningum; en yðar veraldleg sýslan er í því fólgin, að rýja og fjefletta þegna yðar, sjálfum yður til ofmetnaðar og óhófs, þangað til þeim er ekki lengur við vært; slíkt ofbeldi mun koma yður á kaldan klaka, það munuð þjer sanna. Þjer verðið að taka upp annað lag, og hegða yður, eins og guðs orð býður. Ef að þessir bændur ná ekki rjetti sínum fyrir yður, munu aðrir koma, sem jafna þennan skakka á yður. Ef þjer viljið mínum ráðum fram fara, þá vægið til fyrir guðs sakir. Ef heyhlassið hlýtur að víkja úr vegi fyrir drukknum manni, hversu miklu fremur hæfir yður þá ekki að láta af kúgun yðar og harðýðgi við bændur, og breyta skynsamlega við þá, eins og þeir væru víndrukknir eða vitstola menn. Þeir hafa samið 12 greinir, og eru sumar þeirra svo sanngjarnar og rjettvísar, að á þeim sannast, það sem segir í 107. sálmi Davíðs: „Þeir gjöra höfðingjunum kinnroða“. Þegar *Lúter* hvatti bændur til friðar, játaði hann, að höfðingjarnir syndguðu gegn guði og mönnum, þar sem þeir legðu bann fyrir að kenna fagnaðarboðskap Krists, og þjáðu lýðinn óbærilega. En allt um það mættu bændur ekki kalla sig „kristna herinn“, eða „fjelagið kristna“, því með því vanvirtu þeir guðsnafn; „því að skrifað er“, segir hann: „sá, sem á sverði tekur, skal fyrir sverði farast“. Samsæri og upphlaup eru ekki afsakanlegri fyrir það, þó yfirvöldin sjeu ill og óþol-

andi; þjer eruð þó enn verri ræningjar en yfirvöldin, þó ill sjeu“. Að endingu segir hann til þeirra hvorratveggja, höfðingjanna og bændanna: „Hvorirtveggja hafa rangt fyrir sjer, og því mun illu illa lykta á báðar hliðar, og guð mun hegna einum guðleysingjanum með öðrum“.

En mjög daufheyrðust menn við þessum áminningum *Lúters;* höfðingjarnir slökuðu ekkert til, og bændamúgurinn varð æ verri og ósvífnari. Einu sinni handtóku bændur 70 riddara af höfðingjaliðinu, og kvöldu þá til dauða með þeim hætti, að þeir slógu hring um þá, og hvar sem riddararnir leituðu á að komast úr hringnum, stöngnðu bændur þá með spjótsoddum, og særðu þá mörgum sárum, áður en þeir ljetu líf sitt. Fyrirliði riddara þessara var *Loðvík* greifi frá *Helfenstein;* hann átti laundóttur *Maximilians* keisara fyrir konu; hún fjell þessum mannfýlum til fóta, og sýndi þeim barn sitt 2 ára gamalt í þeirri von, að þeim mundi því heldur gangast hugur við hörmung hennar, og gefa manni hennar grið; en þeir skeyttu kveinstöfum hennar svo lítið, að þeir misþyrmdu henni og barninu, og ljeku hana óvirðulega.

Þegar *Lúter* barst þessi morðfregn, var honum öllum lokið; því hann var ekki heillaður af þeirri villu, sem ærið opt hefur brytt á á seinni öldum, að menn eigi að virða uppvægum skríl blóðsúthellingar og manndráp til vorkunar. Hann varð uppvægur af þessum óhæfum, og samdi rit

um „ræningjana og morðvargana“, svo kallaði hann bændur, og hvatti menn að grípa til vopna í móti þeim. Þó þykir mönnum hann hafa um of sýnt ákaflyndi sitt í riti þessu. Á einum stað kemst hann þannig að orði: „Nú verður hver, sem vopnum veldur, að drepa og myrða bæði leynt og ljóst, og gæta þess, að ekkert er háskalegra, ekkert banvænna og ekkert bölvanlegra, en upphlaupsgjarn maður. Honum má enginn hlífa, heldur en ólmum hundi; því ef þú drepur hann ekki, þá drepur hann þig, og alla landa þína með þjer. Höfðingjarnir gæti þess, að þeir eru umboðsmenn guðs, og þjónar hans reiði, sem trúað er fyrir sverðinu á slíka illræðismenn; en ef þeir gæta ekki þessa umboðs síns, hegna ekki þeim, sem hegna skal, og verja ekki þá, sem verja ber, þá syndga þeir engu minna í gegn guði, en hinir, sem myrða menn, og ekki eiga með sverð að fara“.

Upphlaupið færðist meir og meir út, og nú fóru bændur að taka borgir; varð þá eitt af tvennu einkaúrræði sumra höfðingja, annaðhvort að ganga í lið með bændum, sem nokkrir og gjörðu, eða flýja fyrir þeim eignir sínar. En um þessar mundir reistu höfðingjar 2 herflokka í móti bændum, sem biðu þá hvern ósigurinn á fætur öðrum, og ljetu aptur borgir þær, er þeir höfðu náð, og með þessu lauk bændastríðinu sjálfu. En illar og langvinnar voru afleiðingar þess; því nú voru tekin öll vopn af bændum, og þeir þjáðir með

stórsektum, og kúgaðir á alla vegu, miklu meir en áður. Sumir höfðingjar ljetu sjer ekki heldur þetta nægja, heldur svöluðu þeir heipt sinni á lífi bænda, og nokkrir höfðingjar drápu þá sjálfir, en aðrir fóru um lönd sín með fylgd manna og ljetu drepa bændur eða meiða; þannig ljet einn höfðingi stinga augun úr 50 manns í einum bæ. Alls er sagt að 5000 manns hafi fallið í og eptir þetta stríð.

Um sömu mundir, sem bændastríðið geisaði í suðurhluta Þýzkalands, var og upphlaup í *Thüringen;* var klerkur nokkur oddviti þess, er hjet *Thomas Münzer.* Hann hafði áður verið einn í flokki endurskírendanna í *Zwickau,* og var bæði slarkari og svikari; hann leiddi manna mest alþýðu afvega og æsti hana. Honum þótti siðabót *Lúters* með öllu ónóg, og hrakyrti hann herfilega. *Thomas* ljezt hafa fengið guðlega vitrun, og þóttist vera kjörinn til að breyta allri veraldlegri stjórn. „Söfnuðurinn allur“, sagði hann, „á einn heimting á að fara með sverðið, en ekki höfðingjarnir, sem ekki að hafast annað en okur, þjófnað og rán“. Fyrir þessar villukenningar hafði hann verið flæmdur frá einni borg í aðra á Saxlandi og annarstaðar; en þó tókst honum nú loksins að stofna flokk í borg þeirri, er *Mühlhausen* heitir. Mest efldist flokkur hans við það, að hann kenndi alþýðu sameignarkenningar. Það leið því ekki á löngu, áður flokksmenn hans voru orðnir svo margir og ráðríkir, að þeir viku stjórn-

arráðinu í *Mühlhausen* frá völdum, og settu þar aptur annað nýtt úr sínum flokki. Nú hættu líka hinir snauðu að vinna, en kröfðust allra nauðsynja sinna af ríkismönnunum, og ef ekki lá allt laust fyrir, sem þeir heimtuðu, beittu þeir ofbeldi; því sá er siður sameignarmanna. Þegar þeir höfðu umbilt svona öllu í bænum, hjelt *Thomas* með fylgismönnum sínum út um landið, rændu þeir og rupluðu kirkjur og klaustur og borgir, hvar sem þeir fóru, og umhverfðu svo öllum múgamönnum í *Thuringen*, og á mörgum stöðum í Saxlandi hinu efra, *Hessen* og *Brunsvig*, að þeir gripu allir til vopna með þeim. Í þetta mund var sá maður landgreifi í *Hessen*, sem ***Philippus*** hjet, hann var ungur maður, ötull og starfsamur. Hann sefaði manna fyrstur uppreistina í löndum sínum, og veitti síðan nábúum sínum lið í móti þessum óaldarflokki. Gjörðu þá 4 höfðingjar samtök, ***Philippus*** og ***Georg*** hertogi á Saxlandi, *Hinrik* í ***Brunsvig*** og greifinn í *Mansfeld* og fóru í móti *Thomasi* og mönnum hans. Þeir *Thomas* voru saman 8000, og sátu í víggirtum herbúðum á hæð nokkurri skammt frá *Frankenhausen*; það var 15. dag maím. 1525, er þeir hittust. Vildu þá margir uppreistarmenn semja frið, og hjetu höfðingjar þeim griðum, ef þeir vildu gefast upp, og framselja foringja sinn. Þegar *Thomas* sá, í hvert óefni nú var komið, tók hann á allri þeirri mælsku, sem honum var lagin, og hún var reyndar mikil, til að aptra mönnum sínum að

ganga að þessum friðarkostum og svíkja sig. Kom honum þá að góðu haldi regnbogi, sem af hendingu sást í lopti. „Hefjið augu yðar til himins", mælti *Thomas* til manna sinna, „og sjáið, hversu guð er oss miskunsamur, skoðið merki hans sífeldu náðar. Lítið á regnbogann þarna, og þar eð vjer höfum hina sömu liti í merkjum vorum, þá sýnir guð oss berlega, að hann vill efla oss og aðstoða, en búa harðstjórum þessum bana". *Thomas* bjó svo um hnútana, að hann og menn hans ættu engra griða von, með því að drepa ungan tignarmann, er höfðingjarnir höfðu sent með friðarboðin í lið hans. Þessu næst var lagt til orustu, og var það hægðarleikur fyrir höfðingja að sigrast á uppreistarmönnunum, sem lögðu þegar á flótta; í þeirri svipan fjellu 5000 bændur. *Thomas* sjálfur komst þó undan til *Frankenhausen*, og faldi sig þar í lopti einu; en daginn eptir fann riddari nokkur hann. Var hann þá færður fyrir höfðingjana, er ljetu pinta hann og síðan afhöfða.

Þó það næði engri átt, spöruðu ekki fjandmenn siðabótarinnar að taka ofríkisverk bænda og upphlaup trúarvinglsmanna til dæmis um óhæfur þær, sem hún hefði komið til leiðar, og hefði í för með sjer. Bæði af þessum orsökum og því, að svo ógreiðlega hafði verið tekið undir erindi páfans á ríkisþinginu í *Nürnberg* (1524), tóku margir höfðingjar Þýzkalands sig saman um að halda fram páfatrúnni, en í móti *Lúters* kenningu. Áttu þeir til þess fund með sjer í bæ

þeim, er *Dessau* heitir, og annan árinu áður (1524) í *Regensburg*. Einn af höfðingjum þeim, sem gjörðu samtökin í *Regensburg*, var *Ferdinand* keisarabróðir, erkihertogi í Austurríki; því þeir bræður fóru nú að verða berir að fjandskap við kenningu *Lúters* og fylgismenn hans. Um sömu mundir kom og ríkisþingsstefna frá *Karli* keisara, og í henni ljet hann í ljósi, að tilgangur þingsins væri sá, að bæla niður allar hættulegar og ískyggilegar breytingar á trúarbrögðunum. En *Philippus* landgreifi í *Hessen*, er fylgdi fast fram siðabótinni, og var að koma henni á í löndum sínum, reri að því öllum árum, að höfðingjar þeir, sem hlynntir vora kenningu *Lúters*, gengju í fjelag trú sinni til varnar. *Lúter* mátti ekki heyra þess konar fjelagskapar getið; því hann reiddi sig á það, að guð mundi varðveita kenninguna án allrar mannlegrar hjálpar, og hinn bliðlyndi *Melanchthon* hafði viðbjóð á svo alvarlegum samtökum. Friðrik kjörherra hinn *vísi* deyði 5. d. maím. 1525, og varð *Jóhann* hinn *staðfasti*, bróðir hans, aptur kjörherra á Saxlandi; hann fjellst á uppástungu *Philippusar*. Báðir þessir höfðingjar bundu fjelagskap sinn í *Torgau* í maím. 1526, að þeir skyldu aðstoða hvor annan, ef þeir höfðingjar og andlegrar stjettar menn, sem hefðu tekið sig saman um að halda fram siðunum forna, sýndu þeim nokkurt ofríki, sem hefðu hafnað honum. Skömmu síðar gengu nokkrir höfðingjar í nyrðri hluta Þýzkalands í samband þetta.

Í júním. sama ár byrjaði ríkisþingið, sem keisarinn hafði boðað, í bæ þeim er *Speier* heitir; á því þingi ljet keisarinn halda því fast fram, að menn skyldu hlýðnast ríkisþingsályktuninni, sem gjörð var í *Worms* 1521 (óhelgisskrá *Lúters)*, en höfðingjar þeir, sem *Lúter* voru liðsinntir, og áður er getið, mæltu harðlega í móti því; sýndist þá *Ferdinand* keisara bróður, sem mælti af hendi *Karls* á þinginu, ekki ráðlegt að fara því máli lengra fram. En bandamennirnir frá *Torgau* komu því til leiðar, að sú ályktun var gjörð á þingi þessu, að ríkisstjettirnar þyrftu ekki að hlýðnast *Worms*-borgar ályktuninni meir en svo, að þær væru vítalausar fyrir guði og keisaranum. Og þessari ályktun var það að þakka, að siðabótin komst á fastan fót í þeim hjeruðum, sem hún var farin að breiðast út um. Þar eð siðbótamennirnir höfnuðu mörgum trúaratriðum rómversku kirkjunnar með öllu, eða þá breyttu þeim að minsta kosti, fjarlægðust flokkarnir meir og meir hvor annan í því, sem laut að kirkjustjórninni og guðsþjónustunni. Þegar menn brutust undan andlegum yfirráðum páfans, og klerkar fóru að taka sjer konur, og munklífin voru lögð niður, brotnuðu hlekkir þeir, sem klerkavaldið hafði lagt á mannkynið; þegar vikið var frá trúaratriðunum, að brauðið breyttist í Krists líkama í kvöldmáltíðinni, um gildi messufórna og árnaðarorða helgra manna, varð líka guðsþjónustugjörðin að breytast með öllu; og þar eð

*Lúter* kenndi, að hvorki gæti maður ætlazt til að verða hólpinn fyrir eigin rjettlæti sitt nje góðverk, heldur að eins fyrir trúna á Krist, hlutu líka hinir kristnu að hátta líferni sínu öðruvísi, en áður. Samkvæmt þessum aðalreglum voru sálumessur aflagðar, bæði brauði og víni útbýtt í kvöldmáltíðinni (en Páfatrúarmenn útbýta að eins brauðinu), myndadýrkun hætt, þýzka viðhöfð í messugjörð allri í staðinn fyrir latínu, sem áður var, og andlegrar stjettar mönnum leyft að kvænast, klausturheit þóttu ógild, og helgidögum var fækkað. En aptur var lagt ríkt á um ræðuhald og lýðmenntun, sem allt þangað til hafði verið vanrækt með öllu. Í fyrstu voru siðbótarmennirnir fúsir á að láta biskupana hafa sömu umráð í kirkjumálum öllum, sem þeir höfðu áður haft, ef veldi þeirra væri takmarkað, og þeir afsöluðu sjer öllum veraldlegum umráðum. En þegar ekki varð af því, fengu landshöfðingjarnir sjálfir æðstu stjórn kirkjumálanna í hendur, þar sem siðabótin var lögtekin. Allar þessar breytingar voru gjörðar með ráði *Lúters*.

Þó að Friðrik kjörherra hinn *vísi* væri valmenni, má þó svo að orði kveða, að hann hefði heldur *liðið* siðabótina, en *leyft* hana í löndum sínum; því fjarlægur var hann því að fylgja því fram, að þegnar hans tækju hana. En Jóhann kjörherra, bróðir hans, leiddi siðabótina í lög á Saxlandi (1526) með öllum þeim skildaga, sem nú var sagt. Hið sama gjörði og *Philippus* land-

greifi hinn *göfuglyndi* í *Hessen;* því hann var framkvæmdarmaður mikill, góður höfðingi og frumkvöðull alls þess, er til bóta mátti verða. Hann kvaddi alla biskupa í löndum sínum til fundar 1526, og á þeim fundi var rætt um kirkjusiðabótina, og hún lögtekin; ári síðar stofnaði hann háskólann í *Nürnberg.* Árinu áður en siðabótin var lögtekin á Saxlandi og í *Hessen,* höfðu Prússar lögtekið hana hjá sjer, og var það því merkilegra, sem andlegrar stjettar menn einir höfðu haft þar öll yfirráð. Prússaland var þá sumsje byggt af riddarasambandi einu, sem kallaðist Maríuriddarar, og voru þeir háðir konunginum í *Pólen.* En þeir hófu uppreist að nýju, og fór foringi þeirra, er *Albrecht* hjet, í liðsbón til Þýzkalands (1519); en þó honum yrði þar ekki gott til liðs, sá hann þar þó byrjun til siðabótarinnar. Einnig skoraði *Lúter* á hann að efla hana á Prússalandi, og það staðrjeði *Albrecht* með sjer. Fór þá svo á endanum, að siðabótin komst þar á, og um leið varð Prússaland að veraldlegu ríki, og *Albrecht* hertogi yfir, 1525. Skömmu eptir að þeir Jóhann kjörherra og *Philippus* landgreifi höfðu látið lögtaka siðabótina í löndum sínum, fylgdu margir höfðingjar á Þýzkalandi dæmi þeirra.

## 8. Frá Lúter og deilum hans við Erasmus og Sakramentismenn; ríkisþingið í Augsburg, fjelagið í Schmalkalden og yfirlit yfir framfarir mótmælatrúarinnar, þangað til Lúter dó.

Eptir það að *Lúter* kom heim aptur frá *Wartburg*, hjelt hann lengst af kyrru fyrir í *Wittenberg;* en ekki var hann þar iðjulaus, því bæði kenndi hann mönnum í ræðum og ritum. Ekkert studdi eins vel að eflingu siðabótarinnar, eins og biflíu-þýðing sú, er hann byrjaði á í *Wartburg*, en lauk við í *Wittenberg* 1534. En þó var Nýja Testamentið prentað 1522. Orðfærið á þýðingu þessari var jafneinfalt, og það var hátignarlegt, og þykir því enn í dag afbragð fyrir hvorstveggja sakir. Enda varð hún þegar svo vinsæl, að engin bók hefur verið hvorki áður nje síðan jafnvinsæl hjá öllum, æðri og lægri. Með biflíu-þýðingu þessari varð mályzka sú, er hún var samin á, og nú er kölluð „háþýzka", almennt ritmál allra menntaðra manna á Þýzkalandi. Þegar almenningur fjekk þessa bók, snerust menn hópum saman að þeirri kenningu, sem einungis var byggð á ritningunni. Þar að auki þreyttist *Lúter* aldrei að semja guðfræðisrit, biflíuskýringar og prjedikanir, einnig endurbætti hann smásaman biflíu-þýðinguna sjálfa. Það mundu því þykja öfgar, að hann, sem var ávallt heldur

óhraustur, skyldi þola svo mikla og sífelda áreynslu, ef það væri ekki alkunnugt, að gáfumennirnir miklu, sem hafa eitthvert stórvirki fyrir stafni, geta látið líkama sinn, þó veikur sje, verða samferða sálarfjöri sínu, eða þeir láta líkamsmein sín svo lítið á sig fá, að þau tefja ekki fyrir hinni andlegu starfsemi þeirra. Og af því að *Lúter* var nákvæmur og reglusamur mjög í öllum störfum sínum, gat hann þar að auki varið talsverðum tíma til skemmtana og mannfunda.

Undir árslokin 1524 breytti *Lúter* búnaði sínum, lagði munkakápuna fyrir óðal, en tók upp aptur kjólbúnað, sem hann bar jafnan síðan. Kjörherrann var vanur að gefa honum efnið í kjólana, og var það svart að lit, sem þá var hirðvenja til. En þar eð lærisveinar hans tóku upp eptir honum hvern smámuninn í ytri háttsemi, og einnig þennan, þá varð þessi klæðalitur svo almennur, að hann þykir enn í dag hátíðalitur, einkum andlegrar stjettar manna.

Eins og *Lúter* sýndi með þessu atviki, að hann hafði sagt skilið við munkastjettina, eins sýndi hann árið eptir, að hann hafnaði því atriði páfatrúarinnar, að lifa einlífi, með því að hann kvongaðist, og hafði hann þá þó tvo um fertugt. 13. dag júním. 1525 gekk hann að eiga *Katrínu* frá *Bóra;* hún hafði áður verið nunna, og var guðhrædd og af göfugum ættum. *Melanchthon* þótti það bæði kynlegt, og vissi ekki, hvaðan á sig stóð veðrið, þegar hann frjetti þessa ráða-

breytni *Lúters,* sem hann hafði undið svo bráðan bug að, og bar kvíðboga fyrir því, að fjandmenn *Lúters* mundu hæða hann fyrir bragðið, enda varð það líka. En aldrei iðraði *Lúter* þó þessa fyrirtækis síns, því eins gat hann gætt allra starfa, lesið og skrifað eptir sem áður, og þó unni hann „Kötu“ sinni mikið, eins og hún honum, og syni þeim, er hún fæddi honum árið eptir, og *Jóhann* var nefndur.

Árið 1527 byrjuðu þeir *Lúter* og *Melanchthon* ferð eina um Saxlands kjörríki og *Meiszen,* til að rannsaka kennsluna í kirkjum og skólum, var það verk bæði ervitt fyrir *Lúter* og langvinnt, því þeir voru að því nærfelt í 2 ár. Á þessum ferðum komust þeir að þeim hryggilegu sannindum, að kennararnir voru ekki miklu betur að sjer, en hinir, sem þeir áttu að kenna; guðsþjónustan var í því fólgin, að þylja bænaformála, sem þeir skildu lítið eða ekkert í, sem með þá fóru. „Það er ótækt“, sagði *Melanchthon,* „að það skuli hafa viðgengizt, að menn sjeu svo vankunnandi og ófróðir. Mjer blæðir í skap, þegar jeg sje þetta volæði. Jeg fer opt í einhýsi, svo að jeg geti sefað harma mína með gráti. Eða hverjum mundi ekki ofbjóða, sem sæi hæfilegleika mannsins svo gjörsamlega vanrækta, að hann, sem getur bæði numið og skilið svo marga hluti, skuli ekki vita neitt um guð sinn og skapara?“. Þegar þessu mæðusama starfi var lokið, samdi *Lúter* höfuðgreinir af trúarkenningunum og siða-

fræðinni í spurningum og svörum, til að gjöra kennendunum hægra fyrir með kennsluna. Þetta er hin nafnfræga „fræðabók *Lúters* hin meiri“; hún var fyrst prentuð 1528. Síðan gjörði hann aptur dálítið ágrip af þeirri bók, er hann kallaði „fræðabókina litlu“; þá bók ætlaðist hann til að börn skyldu nema, og er sú tilætlun hans enn óhögguð í öllum löndum, þar sem Lúterstrú er. Eins og *Lúter* hafði bætt úr brestum alþýðumenntunarinnar með báðum þessum bókum, eins samdi *Melanchthon* vísindalega kennslubók í guðfræði, sem fyrst var prentuð 1521, og var kölluð *„Loci communes rerum theologicarum“*, varð hún svo frábærlega vinsæl, að hún var prentuð 67 sinnum þangað til 1595. Sama árið, sem *Lúter* samdi „fræðabókina meiri“, ritaði *Melanchthon* leiðarvísi handa prestunum í Saxlands kjörríki; þessi bók var prentuð 6 sinnum sama árið (1528). Í henni kenndi *Melanchthon* prestum og skólakennurum reglur fyrir guðþjónustunni og kennslunni.

*Erasmus*, sá er áður var getið að verið hafði *Lúter* hliðhollur, hafði um þetta leyti gengið í flokk þeirra, er *Lúter* átti í ritdeilum við. *Erasmus* samdi aðfinningu, er hann kallaði *„De libero arbitrio“* (um frjálsræðið), við það rit *Lúters*, sem neitar frjálsræði mannsins; í riti þessu leiddi *Erasmus* ljóslega rök að því, að vilji mannsins væri ekki eins ófrjáls, og *Lúter* áleit. Þessu riti *Erasmusar* svaraði *Lúter* með öðru, er hann varði í hina fyrri skoðun sína með slík-

um bituryrðum um *Erasmus*, að hvorki gat *Melanchthon* nje öðrum guðfræðingum af *Lúters*-trúarmönnum gjeðjazt að, og það jafnvel ekki á meðan *Lúter* lifði.

Annar ágreiningur kom og á gang, skömmu eptir að *Lúters*-trúin var nýstofnuð, það var deilan um altarissakramentið. *Lúter* vildi ekki álíta, að brauðið *breyttist í Krists líkama*, en hjelt fast á *líkamlegri návist Krists í kvöldmáltíðinni*. Af þessari skoðun *Lúters* varð *Karlstadt* óður og uppvægur, og sagði, að menn neyttu altarissakramentisins að eins, til þess að minnast dauða frelsarans, og lenti því í deilum við *Lúter*, og af þeim deilum fór svo, að *Karlstadt* varð að fara burtu úr Saxlands kiörríki. Allt um það fjellust þó guðfræðingarnir í syðri hluta Þýzkalands á skoðun *Karlstadts;* en með því meira kappi varði *Lúter* skoðun sína, og var, á meðan hann lifði, hinn megnasti og sárbeittasti mótstöðumaður flokks þessa, er síðan voru kallaðir Sakramentismenn. *Lúter* var svo ákafur og svo fastur á skoðun sinni, að hann vílaði ekki fyrir sjer að skírskota til álits þess, sem menn hefðu haft um þetta atriði trúarinnar á öllum öldum, en þó mat *Lúter* það álit í öðrum atriðum einskis í samanburði við orðatiltæki ritningarinnar og uppgötvanir þær, sem á henni voru byggðar. *Karlstadt* hætti bráðum deilunni, en þá kom *Zwingli* siðbótarmaður í *Sveiz* til, sem hjelt henni á fram við *Lúter*, og urðu lakari eptirköst að

deilu þeirra, en þó þeir *Lúter* og *Karlstadt* ættust við.

Árið 1519 fór munkur nokkur um *Sveiz*, *Bernhard Samson* að nafni, og ljet föl syndalausnarbrjef. Hann kom í fylki það í *Sveiz*, sem *Zürich* heitir, en þar var *Zwingli* þá prestur, og mælti hann kröptuglega og skorinort í móti þessari óhæfu, eins og *Lúter* hafði gjört á Saxlandi, svo að munkurinn varð að sitja einn uppi með allan varning sinn, og margir nefndarmenn í *Sveiz* rjeðu honum til að hætta þar verzlun sinni og fara þaðan; en aðrir segja, að *Sveizar* hafi sameiginlega beðið *Leo* páfa hinn tíunda um að kalla þennan sendimann sinn heim aptur, og hafi hann gjört það. *Zwingli* samdi þrætugreinir, sem hann bauðst til að verja. Enda gjörðu Páfatrúarmenn honum kost á því, og þreyttu kappræður við hann þrisvar sinnum. Og í öllum þessum kappræðum þótti *Sveizum* ástæður *Zwinglis* svo sannfærandi og ljósar, að þeir hættu sálumessum og að tigna myndir helgra manna, en aptur var farið að halda ræður á þýzku; einnig var munkum og nunnum leyft að gipta sig; *Zwingli* kvongaðist sjálfur 1524.

Þannig efldist siðabótin eins fljótt í *Sveiz*, eins og á Þýzkalandi, af því að þeir *Lúter* og *Zwingli* unnu báðir að hinu sama verki, og bar þeim mjög lítið á milli í kenningum sínum, nema hvað skoðun þeirra var sundurleit á kvöldmáltíðinni, og tvistraði sá ágreiningur mjög sam-

heldni siðbótarmanna, þegar mest reið á, að þeir hjeldu sem bezt saman í móti Páfatrúarmönnum. Reyndi fyrst á það eptir ríkisþingið, sem haldið var í *Speier* 1529; því þar höfðu Páfatrúarmenn komið fram þeirri ályktun, að þeir höfðingjar, sem þá höfðu tekið Lúterstrú, skyldu reyndar mega halda henni, þangað til almennt kirkjuþing kæmist á, en hvorki mættu þeir leggja niður sálumessur nje aðra helgisiði Páfatrúarmanna, og engan skyldu þeir leiða til að fallast á þá trú þeirra þaðan í frá; einnig skyldu þeir hlýðnast ályktun þeirri, sem gjörð var í *Worms* 1521. Þessu trúarbanni undu Lúterstrúarmenn svo illa, að þeir sömdu mótmælisskrá, sem þeir lögðu aptur fyrir þingið, til að hnekkja þessari ályktun. Í þessari mótmælisskrá *(Protestation)* sögðu Lúterstrúarmenn sig úr lögum við Páfatrúarmenn, og fengu af því nafn það, er síðan hefur við þá haldizt, að þeir eru kallaðir *Mótmælendur (Protestantar).*

Þegar svona var komið, vildi *Philippus* landgreifi í *Hessen,* að bæði Mótmælendur og *Zwinglis*-trúarmenn legðust á eitt, og gengju í fjelag í móti Páfatrúarmönnum; og voru *Zwinglis*-trúarmenn þess fúsir. En þá risu upp guðfræðingarnir í *Wittenberg,* og þar á meðal *Lúter* einn, og köllnðu það ódæði að hafa nokkurt samfjelag við Sakramentismenn. Það kom að engu haldi, þó landgreifinn leiddi þeim fyrir sjónir, hvílík fásinna það væri, að gjöra svo vold-

uga bandamenn ræka úr fjelaginu fyrir lítils ágreinings sakir, sem höfðu lofað að leggja til 60000 hermanna, ef til þyrfti að taka. *Lúter* daufheyrðist við þessum ástæðum, og kom kjörherranum til að fylgja sinni skoðun á málinu. *Philippus* hjelt, að enn mætti takast að jafna ágreining þennan, og gekkst því fyrir, að þeir *Lúter* og *Zwingli* ættu fund með sjer í *Marburg* til að tala sig saman, og að þá mundi öllum þvergirðingi lokið. *Lúter* fór þangað og *Melanchthon* með honum, og fleiri menn af þeirra flokki; þar kom og *Zwingli* og nokkrir frægir guðfræðingar með honum. Var þá tekið til umræðu (2. d. októberm. 1529); en allt kom í einum stað niður, þeir gátu ekki orðið á eitt sáttir, *Lúter* og *Zwingli*, því þó að *Zwingli* væri maður blíðlyndur, og vildi vægja nokkuð fyrir *Lúter*, gat hann þó ekki látið af skoðun sinni með öllu. En *Lúter* var orðinn svo sár af ertingum *Karlstadts*, sem áður hafði deilt við hann um sama efni (1. Kor. 11, 24. og 25.), að hann kvaðst heldur vilja, að allir tækju upp aptur siðinn forna, en að skoðun Sakramentismanna yrði lögtekin í kristninni. Að skilnaði hjetu þeir þó hvor öðrum, *Lúter* og *Zwingli*, vináttu sinni, og því, að hætta ritdeilum öllum. En af sundurþykkju þeirra hlauzt það, að ekkert varð af fjelagskapnum milli fylgismanna þeirra. *Zwinglis*-trúarmenn urðu eptir þetta trúarflokkur sjer í lagi, eru þeir nú jafnaðarlega kallaðir „Siðbót-

armenn“ *(Reformertir)* eða „Kalvínstrúarmenn“ *(Kalvinistar)* og nefndir eptir *Jóhanni Kalvin*, er fylgdi *Zwinglis* kenningu fast fram í *Genf*, en gjörði þó nokkrar breytingar á henni. *Zwinglis*-trúarmenn eru að því einu ólíkir Mótmælendum í ytri háttsemi, að þeir mega ekkert skraut sjá í kirkjum sínum, og engar myndir helgra manna; þeir neyta og óvandaðs brauðs við altarisgöngu, þar sem Mótmælendur hafa bakstur.

En þótt ekki gengi saman með þeim *Lúter* og *Zwingli* í *Marburg*, og Mótmælendur efldust ekki af samtökum við *Zwinglis*-trúarmenn, varð annað atvik til að frelsa Mótmælendur undan hættunni í þetta sinn, sem yfir þeim vofði. Einmitt um sömu mundir, sem fundurinn var í *Marburg*, herjuðu Tyrkjar með miklu liði á ríki *Karls* keisara eða rjettara sagt *Ferdinands* keisara bróður, sem átti *Ungarn* og Austurríki, sem Tyrkjar fóru verst með, þeir höfðu og sezt um *Wien*, en *Karl* var um þetta leyti í Ítalíu. Af þessu höfðu þeir bræður annað að hugsa, en framfylgja ríkisþingsályktuninni, sem gjörð var um vorið áður í *Speier*.

Sumarið eptir (1530) var keisarinn betur viðlátinn en áður að skipta sjer af málefnum Þýzkalands; því boðaði hann ríkisþing í Ágsborg, og kom þangað sjálfur (15. d. júním.). Á þessu þingi var fyrst tekið til kirkjumálanna, og ljetu Mótmælendur lesa þar upp trúarjátningu sína; hana hafði *Melanchthon* samið, og var hún svo

einfaldlega, ljóslega, vægilega og stillilega orðað, að afbragð þótti fyrir alls þessa sakir. ¡Trúarjátningin sjálf var 21 grein, en þar að auki voru 7 greinir, sem bentu á ósiði þá, sem Mótmælendur höfnuðu í trú sinni. Þegar upplestrinum var lokið, kvaðst keisarinn skyldi íhuga þetta mál ítarlegar, og svara þeim síðan. Hann fjekk rit þetta, sem síðan er kallað „trúarjátningin í Ágsborg", guðfræðinganefnd í hendur, er Páfatrúarmenn kusu úr sínum flokki, til að semja mótmæli í móti því og hrekja það. En rit það, er þeir sömdu, var svo hrokafullt og ósvífið, að keisarinn gjörði þá apturreka með það; urðu þeir þá að yrkja á nýjan stofn, og semja annað. Í niðurlagi þess rits var svo að orði komizt: að keisarinn vonaði, að Mótmælendur mundu nú verða sáttir og sammála við rómversku trúna; en að öðrum kosti yrði hann að láta þá kenna á hörðu. En Mótmælendur fóru ekki að því, og fóru nokkrir þeirra burtu af þinginu að keisaranum fornspurðum. 19. dag nóvemberm. ljet keisarinn birta þá ályktun þingsins, að allar trúarbreytingar, sem hefðu rutt sjer til rúms á Þýzkalandi síðustu árin, væru óheimilar, og skyldu því afmást; en yfir þá, sem ekki vildu hlýðnast þessari ályktun, skyldi lýsast óhelgi, og þeir sektast öðrum stórsektum, fyrir því að þeir hefðu raskað landsfriði. Þetta var allur árangurinn af 5 mánaða þinginu í Ágsborg!

Mótmælendur voru svo fjarlagir að ganga á

bak orða sinna og taka upp aptur siðinn forna (páfatrúna), að þeir ljetu *Melanchthon* semja varnarrit fyrir trúarjátningu þeirra. — *Lúter* hafði ekki verið á þessu þingi, hann var í *Koburg*, á meðan það stóð yfir, og optast veikur; þar orti hann þá sigursálminn: „Óvinnanleg borg er vor guð“. Þegar *Lúter* sá, í hvert efni komið var, og að ekki mátti svo búið standa, taldi hann kjörherrann á að skerast í leikinn; því að nú var hann horfinn frá þeirri skoðun sinni, að það væri synd að verja trúna með vopnum, ef henni væri misboðið. Kjörherrann á Saxlandi og *Philippus* í *Hessen* stefndu þá saman bandamönnum sínum í *Schmalkalden* (Smalkalden) 17. dag febrúarm. 1531; komu þangað 3 hertogar frá *Brunsvig* og *Lüneburg, Wolfgang* höfðingi í *Anhalt*, 2 greifar frá *Mansfeld* og sendimenn frá 11 frjálsum borgum á Þýzkalandi, sem bundust allir í fjelag, að aðstoða hver annan af öllum mætti, ef þeim væri sýndur ófriður. Einnig gengu nokkrir af mótstöðumönnum Lúterstrúar í þetta samband, til að verja frelsi Þjóðverja, ef því væri hallað; voru það helzt hertogarnir í *Baiern* (Bælandi), sem sveið það sáran, að *Karl* keisari hafði gjört *Ferdinand* bróður sinn að „rómverskum konungi“ (11. d. júním. 1531).

En ekki þurftu Mótmælendur heldur í þetta sinn að taka til bandamanna sinna í móti Páfatrúarmönnum; því að Tyrkjar bjuggu sig enn að nýju til að herja á lönd *Ferdinands*, sá því keis-

arinn ekki annað fangaráð, en vægja nokkuð til við Mótmælendur, og hjet þeim trúarbragðafrelsi um eitt ár, til að fá þá til liðs við sig í móti Tyrkjum. Eptir þetta fór þó samheldni Mótmælenda að minka: fyrst vegna þess, að *Philippus* landgreifi var þeim reiður, einkum *Jóhanni* kjörherra, fyrir það að hann hefði gengið að eins árs trúarbragðafrelsi í friðnum, sem saminn var í *Nürnberg* (1532), og játazt undir það, að koma ekki öðrum til að taka Lúterstrú, og annað það, að þegar *Jóhann* kjörherra dó (16. d. ágústmán. s. á.), varð *Jóhann Friðrik* sonur hans kjörherra eptir hann á Saxlandi, og grunuðu Mótmælendur hann, að hann drægi fremur taum keisarans en þeirra; því að hann vildi eiga systur keisarans. Um þetta ósamlyndi Mótmælenda þótti *Karli* vænt, því hann var kænn maður og stilltur vel, og sá, til hvers þetta mundi draga, og huggði gott til að nýta sjer misklíðir þeirra, og sparaði ekki heldur að æsa þá hvern í móti öðrum.

Lúterstrú efldist eigi að siður; þvi margir þegnar *Karls* og *Ferdinands* í Austurríki snerust að henni, og svo leit út árið 1539, sem enginn Páfatrúarmaður mundi verða eptir á öllu Þýzkalandi að 20 árum liðnum, hefði mótmælatrúin aukizt eins eptir það, eins og þangað til. Hversu illa sem þeir *Karl* keisari og *Ferdinand,* bróðir hans, undu þessum framförum, gátu þeir þó ekki aðgjört; þvi ávallt urðu þeir að vera búnir við árásum af útlendum fjandmönnum. Ár-

ið 1542 urðu þeir að leyfa Mótmælendum óskorað trúarbragðafrelsi og tryggan frið um 5 ár, til að fá hjálp af þeim í móti Tyrkjum; því annars var engrar hjálpar von af þeirra hendi. Þannig var það mest hinum vantrúuðu Tyrkjum að þakka, að mótmælatrúin efldist, án þess þó að þeir hefðu nokkra ímyndun um það. Í kyrrþey hugsaði keisarinn sjer þó að refsa hinum þrjózku Mótmælendum, og af því þeir voru sjálfir sundurþykkir sín í milli, varð honum hægra fyrir með það; enda ljet páfinn ekki sitt eptirliggja að spana *Karl* upp til þess.

## 9. Lúter deyr.

Höfðingjarnir höfðu *Lúter* sjaldnar en áður með sjer til ríkisþinga og guðfræðiskappræðna seinni hluta æfi hans, bæði af því að honum ljetu ekki ferðalög, og af því að þeir væntu, að *Melanchthon* mundi vinnast eins vel að með spaklyndi sínu og bliðu. En þó ljet *Lúter* stundum til sín taka, þegar honum þótti „þurfa timburmannsaxar“, eins og hann komst að orði; því hann játaði það fúslega, að hann gæti ekki stillt orð sín alls kostar. Seinustu árin, sem hann lifði, hafði hann vakið aptur deiluna um altarissakramentið, sem hafði legið í þagnaðargildi um hríð, og ritaði þá með meiri ákafa, en nokkru sinni áður, í móti skoðun *Zwinglis* á því efni. *Lúter* var mjög óskaprór, af því að hann þóttist verða var við, að nokkrir af embættisbræðrum sínum

og vinum væru Sakramentismenn, og honum var jafnvel ekki grunlaust um *Melanchthon.* Hann var og reiður lögfræðingunum í *Wittenberg*, af því að þeim þóttu gildar trúlofanir stúdenta, en *Lúter* hafði mælt í móti þeim af ræðustólnum. Þetta allt setti svo mikinn óhug að honum, auk þess sem menn verða stygglyndari, þegar ellin færist yfir og sjúkleikar sækja á, að hann fór í burt frá *Wittenberg* í maímán. 1545; var hann þá með vinum sínum, og vildi ekki hverfa heim aptur, fyr en kjörherrann fór bónarveg að honum.

Af því, sem nú er sagt, má sjá, að *Lúter* var mjög í móti skapi stefna sú, sem siðabótin hafði tekið; því honum þóttu höfðingjarnir of hviklyndir og óvarkárir, en *Melanchthon* of mildur og eptirlátur. Og reyndar var það satt, að ef höfðingjarnir hefðu bundið fastar fjelag sitt, og farið stillilega að ráði sínu, mundu þeir hafa borið betra úr býtum, eins og þá var ástatt fyrir ríkinu; og mundu, ef til vill, hafa getað afstýrt stríðum þeim og blóðsúthellingum, sem seinna hófust í milli Mótmælenda og Páfatrúar manna. Á meðan *Lúter* lifði, var þó friður að kalla í Þýzkalandi, þó þar væri deilusamt: rifust menn í ritum, en fóru ekki í handalögmál, fyr en *Smalkalda*-stríðið hófst; það var hið fyrsta stríð, sem siðabótin gaf tilefni til, og var *Lúter* þá dáinn. Guðleg forsjón, sem hafði verndað hann í svo mörgum og stórkostlegum

hættum, hlífði honum við þeirri hjartasorg á elliárunum, að verða sjónarvottur og heyrnarvottur að því, að siðabótin, sem hann hafði næst guði komið á fótinn, skyldi verða tilefni til blóðsúthellinga.

Það var ekki kyn, þó *Lúter* með sinni óþreytandi starfsemi, og hann, sem hafði reynt svo mjög á sálar og líkamskrapta sína, fyndi til elliburða, þó hann væri ekki eldri en á 3. árinu um sextugt; en allt um það var hann þó ekki eina stund iðjulaus, það sýna rit þau, er hann ljet eptir sig, sem ekki eru færri en 22 bönd í arkarbroti, og er það því furðanlegra, sem hann eyddi miklum tíma til ræðuhalda í kirkjum, fyrirlestra við háskólann, ferðalaga og mannfunda. Og þó þjáðist hann 20 síðustu árin æfi sinnar af steinsótt, einu sinni á hverjum 11 dögum, og verkjarflogum í höfðinu með svima og suðu fyrir eyrunum, og svo mikil brögð voru að þessu, að hann varð opt að hætta við hálffluttar ræður, og yfirgefa ræðustólinn. Þessar þjáningar hjelt *Lúter* að væru árásir djöfulsins, og bað því ákafar til guðs, og setti traust sitt á hann. Þegar eitthvert andstreymi hvarf frá, eptir að hann hafði beðið lengi og innilega, varð hann mjög glaður, og var þá til með að hæla sjer af því, að hann væri guði handgenginn. Þannig sagði hann einu sinni frá því, að hann hefði hjálpað *Melanchthon*, þegar hann var þungt haldinn af veikindum: „Þá sneri jeg mjer út í gluggann“, sagði hann, „og

guð varð að heyra bæn mína, því jeg þjáði eyru hans með öllum fyrirheitum bænarinnar, sem þá urðu að rætast, þar eð jeg gat sagt honum það í frjettum úr heilagri ritningu, að hann yrði að bænheyra mig, *ef jeg ætti að geta treyst fyrirheitum hans*".

Af þessu óbifanlega trausti á guði var *Lúter* líka optast svo glaðlyndur og skemmtinn, hversu þjáður sem hann var, að engum tjáði að vera hryggur, þegar hann var nálægur. Já, *Lúter* var mesti æringi, og svo laginn til að gjöra að gamni sínu, að hann átaldi opt sjálfan sig fyrir það. Hann henti jafnvel gaman að veikindum sjálfs síns. Við höfðingskonu eina sagði hann, sem heimsótti hann einu sinni, þegar hann var illa haldinn af útbrotum og kýlum um allan líkamann: „Náðuga frú, jeg hef verið ofur ófrískur í ár, jeg hef allajafna verið óhraustur annaðhvort á sál eða líkama. Núna eru jafnmargar stjörnur um allan líkama minn, eins og á fjölstirndum himni. Jeg vildi einungis óska þess, að þær væru allar komnar á erkibiskupinn í *Mainz*". Auk þess sem hann skemmti vinum sínum svo vel með tilgerðarlausri fyndni í samræðum yfir borðum, að þeir gleymdu hartnær allri matarlyst, skemmti hann bæði sjálfum sjer og öðrum með söng og hljóðfæraslætti. Hann sagði líka, að sá, sem ekki kæmist við af sönglist, væri ekki miklu æðra eðlis, en stokkur eða steinn. Hann kvaðst og hafa komizt að því, að djöflinum mundi lítið vera gefið um sönglist; því hann

þóttist hafa tekið eptir því, að allar áhyggjur og óhugi hyrfi frá sjer, hvort sem hann ljeki á eitthvert hljóðfæri, eða færi með guðsorð.

Árið 1545 var misklíð mikil með greifunum í *Mansfeld,* svo að ekki var annað sýnna, en að greifadæmið yrði smá-partað sundur. Þegar greifarnir höfðu um hríð átt í kostnaðarsömum málaferlum, hugsaðist þeim það happaráð, að biðja *Lúter* að gjöra um málið, af því að hann var fæddur í umdæmi þeirra, í *Eisleben* sumsje. *Lúter* var þá nýkominn heim aptur til *Wittenberg* úr fjarvist þeirri, sem áður var getið. Nú þótt það væri ekki venja hans að skipta sjer um veraldleg efni, því hann annaðist embætti sitt með mestu alúð, og væri lítið fyrir ferðir, og þó hann væri þar að auki mjög óhraustur, eins og hann átti vanda til, vildi hann allt að einu ekki mælast undan þessari ferð í þarfir ættjarðar sinnar. Hann kvaddi þá konu sína, hina ástfólgnu Katrínu, í hinnsta sinni; því það átti ekki fyrir honum að liggja að sjá hana aptur, og fór frá *Wittenberg* um hávetur, 23. dag janúarm. 1546, og hafði með sjer syni sína 2, *Martein* og *Pál.* Daginn eptir kom hann til *Halle,* en varð að dvelja þar í 4 daga; því að bæði var hann máttfarinn, og á sú, er *Saale* heitir, og sem er á leiðinni frá *Halle* til *Eisleben,* var þá í vexti miklum. 28. dag sama mánaðar kom hann þó til *Eisleben;* hafði hann látið ferja sig, syni sína og doktor *Justus Jónas,* biskup í *Halle,* yfir ána,

og var það hættuför mikil, enda hafði *Lúter* sagt á leiðinni: „Doktor *Jónas*, ætli djöflinum væri ekki dillað, ef bæði jeg, synir mínir og þjer drukknuðum hjer allir í einu“. Þegar *Lúter* kom í grennd við *Eisleben*, komu 113 riddarar út í móti honum, varð honum þá svo illt í vagninum, að menn huggðu honum varla líf. Þegar hann kom í herbergi það, sem honum var fengið til að vera í, var hann núinn með vörmum voðum, og hresstist hann svo af því, að hann mataðist og drakk um kvöldið, og tók aptur gleði sína. Einu sinni þegar hann mataðist í *Eisleben* í þetta sinn, segja menn, að hann hafi sagt: „Sannarlega er matur hvergi jafngómsætur, og þar sem maður er borinn“. Eptir að *Lúter* var kominn til *Eisleben*, var hann á hverjum degi á fundum með greifunum, allt þangað til á þriðjudaginn, 16. dag febrúarm. Að kveldi þessa dags sagði hann: „Þegar jeg er búinn að koma sættum á með greifunum hjerna, ætla jeg að fara heim og leggjast í holu mína, og gefa ormunum hold mitt“. Fjórum sinnum embættaði hann, á meðan hann dvaldi í *Eisleben*, í seinasta sinni 14. d. febrúarm.

17. dag febrúarm. var *Lúter* miklu þyngra en áður, báðu þá vinir hans hann, þeir doktor *Jónas*, og sjera *Coelius* (Selíus) frá *Mansfeld*, er og hafði fylgt *Lúter* þangað, og greifarnir, að fara ekki úr herbergjum sínum þann dag, og reyna ekkert á sig, og ljet hann það að orðum þeirra, en þeir vinir hans og synir voru hjá hon-

um. *Lúter* var til húsa hjá doktor *Drachstedt*, býjarskrifara; bjó hann þar í loptherbergjum, en mataðist í stórum sal niðri. Það var venja hans að fara á hverju kvöldi frá borðum í byrjun 9. stundar, eða stundum fyr, upp í herbergi sín; var hann þá vanur að standa á hverju kvöldi góðan tíma við gluggann, og biðjast fyrir með svo mikilli alvörugefni og ákefð, að þeir vinir hans, doktor *Jónas* og sjera *Coelius* heyrðu orðaskil, þegar hljótt var. Síðan sneri hann sjer aptur frá glugganum, og var þá svo glaður, eins og ljett hefði af honum torfu; jafnaðarlega talaði hann þá í 7 mínútur við þá vini sína, og gekk síðan til sængur. Þennan sama dag (17. d. febr.) gekk hann opt að glugganum á herbergi sínu, renndi augum til himins og bað í hálfum hljóðum. Einu sinni mælti hann þá til vina sinna: „Doktor *Jónas* og sjera *Coelius*, jeg er borinn og barnfæddur hjerna í *Eisleben;* hver veit, nema jeg eigi líka að bera hjer beinin? Þegar á leið daginn, bráði þó svo af honum, að hann gekk ofan til kvöldverðar, en heldur var hann þá alvarlegur og sorgbliður. Á meðan hann mataðist, talaði hann um dauðann, og að fundum manna mundi bera saman aptur í eilífðinni. Síðan gekk hann aptur upp í herbergi sín, færðust þá aptur yfir hann þjáningarnar; mest kvartaði hann um brjóstþrengsli og verki í brjóstinu. Var hann þá núinn með vörmum voðum, eins og venja var, þegar hann var heima, svo að honum fannst

sjer svía við það. Kom þá *Albrecht* greifi upp til hans, og spurði, hvernig honum færi að; en *Lúter* ljet vel yfir því, og kvað sig ekki mundi saka. Gaf þó greifinn honum lyf þau, er einhyrningur (Eenhjörning) kallast, og fór síðan burtu. *Lúter* lagðist þá á legubekkinn eptir 9. stund, og sagði: „Jeg held, að mjer mundi batna, ef jeg gæti sofnað, þó ekki væri lengur en ½ stund". Þannig sofnaði hann, og svaf brigðalaust, þangað til í byrjun 11. stundar. Þegar hann vaknaði, sá hann vini sína og syni sitja angráða umhverfis sig. „Hvað er að tarna", sagði hann með viðkvæmu hjarta, „sitjið þjer enn hjerna yfir mjer? Ætlið þjer ekki að ganga til hvílu"? En þeir kváðust ekki mundu taka á sig náðir, því þeir ætluðu að vaka yfir honum, og gæta hans. Síðan stje hann á fætur, og gekk inn í svefnherbergið, sem þar var til hliðar; en í því hann gekk yfir þröskuldinn, sagði hann: „Ef guð lofar, þá ætla jeg nú að ganga til hvílu. Í þínar hendur fel jeg sál mína. Þú hefur endurleyst mig, þú guð sannleikans". Síðan gekk hann til hvílu, og kvaddi þá með handabandi, sem hjá honum voru. En um leið og hann kvaddi þá, sagði hann: „Biðjið guð að varðveita trúna, svo að hún þróist og vaxi; því að kirkjuþingið[1] í *Trident* og andstyggðar-páfinn eru henni mjög mótfallin". Að svo mæltu sofnaði hann, var andardráttur hans þá heldur örðugur, en vaknaði aptur 1 stundu eptir

[1]) það byrjaði 13. d. desemberm. 1545.

miðnætti, og bað þjón sinn að hita herbergið, hafði því þó verið haldið heitu alla nóttina. Doktor *Jónas* spurði *Lúter* þá, hvort hann kenndi verkjar; og svaraði hann því á þessa leið: „Drottinn, guð minn, en hvað jeg þjáist! Doktor *Jónas*, nú er útsjeð um það, að jeg á að bera hjerna beinin“. Síðan fór hann á fætur og gekk einsamall og óstuddur inn í stofuna, og gekk þar um gólf nokkrum sinnum, lagði sig svo í legubekkinn, og kvartaði um brjóstþyngsli. Var hann þá enn núinn með vörmum voðum, og heitir koddar og klæði látin umhverfis hann á alla vegu; því að hann kvað það mundi lina kvöl sína.

Meðan á þessu stóð, voru allir komnir á fót, sem í húsinu voru, og læknar tveir sóttir; *Albrecht* greifi og greifafrúin komu og þangað bæði, og höfðu með sjer kröptug læknislyf. Var þá, sem vant er, að sinn rjeði hvað. *Lúter* kvartaði allajafna um brjóstþyngsli og verki, fórnaði upp höndum og bað fyrir sjer: „Himneski faðir, eilífi miskunsami guð, þú hefur birt mjer þinn ástkæra son, Jesúm Krist; á hann trúi jeg, um hann hef jeg kennt, hann hef jeg elskað og vegsamað, því hann er frelsari minn og endurlausnari. Jeg bið þig, drottinn minn, Jesús Kristur, meðtaktu sál mína auma“. Síðan kallaði hann þrisvar: „Faðir, í þínar hendur fel jeg sál mína, þú hefur endurleyst mig, þú trúlyndi guð“! Eptir það þagnaði hann, ljet aptur augun og missti mátt sinn að mestu. Greifafrúin og læknarnir neru hann enn

með ýmsum lyfjum og ilmvatni um gagnaugun og annarstaðar, hinir aðrir bökuðu hann og neru. Hann lauk þá enn upp augunum, en svo var þá af honum dregið, að hann gat að eins sagt *já* og *nei* í hálfum hljóðum. Þá ávarpaði doktor *Jónas* hann enn þessum orðum: „Ástkæri, virðulegi faðir, játið þjer enn Jesús Krist, frelsara vorn og endurlausnara, og kenningu hans, sem þjer hafið kennt, og viljið þjer deyja með þeirri trú"? Hafði *Lúter* þá enn svo mikinn mátt, að hann gat sagt „já" svo hátt, að þeir, sem við voru staddir, gátu glöggt heyrt. Síðan sneri hann sjer á hægri hliðina, og sofnaði, og var hann þá þegar allur. En svo var andlát hans hægt, að þeir, sem við voru, urðu þess ekki varir, fyr en þeir báru ljósið að vitum hans, og tóku á höndum hans og fótum, og sáu, að hann var látinn.

*Lúter* dó aðfaranóttina hins 18. d. febrúarm. 1546, um 3. stundu eptir miðnætti, var hann þá á 3. árinu um sextugt. Þegar um nóttina var sendur hraðboði til *Wittenberg* til kjörherra *Jóhanns Friðriks,* og kom hann aptur með þau boð, að flytja skyldi líkið til *Wittenberg.* Þegar lát *Lúters* frjettist um *Eisleben,* harmaði hvert mannsbarn í bænum, eins og hann hefði verið faðir bæjarbúa. Var þá þegar steypt kista af tini, og líkið lagt í hana með öllum líkbúnaði. 19. d. febr. 2 stundum eptir hádegi var það borið í kirkju, og fylgdu því greifarnir allir, sem við voru, og tignarmenn og allir bæjarbúar; hjelt

doktor *Jónas* þá svo snjalla ræðu, að enginn gat tára bundizt. Daginn eptir var líkið flutt á vagni frá *Eisleben* til *Halle*, og var þá hringt með öllum klukkum í hverjum bæ, sem líkfylgdin fór fram hjá, en bæjabúar stóðu harmandi í sorgarbúningi við veginn. Einni stundu fyrir miðaptan kom líkfylgdin til *Halle*, og gengu bæjarbúar langar leiðir út í móti henni, en embættismenn andlegir og veraldlegir, og allir skólakennarar og skólasveinar fóru á móti líkinu í hátíðlegri helgigöngu. Var þá sá mannfjöldi á öllum brúm og strætum í borginni, að líkfylgdin varð opt að nema staðar, og loksins eptir 2 stundir komu þeir líkinu í torgkirkjuna, stóð það þar um nóttina, og hjeldu bæjarmenn vörð yfir. Listamaður nokkur notaði sjer þessa næturstund til að búa til vaxmynd eptir andliti *Lúters*, og eptir þeirri mynd er sú líkneskja gjörð, sem enn má sjá í bókasafninu í Maríukirkju í *Halle*.

Daginn eptir hjelt líkfylgdin á fram, og kom til *Wittenberg* 22. dag febrúarm. Var það bæði hátíðleg og aumkunarleg sjón, þegar líkið var hafið inn um *Elster*-hliðið: þar var mikill fjöldi af greifum og stórhöfðingjum, allir ríðandi, háskólakennararnir og stúdentarnir og valdsmenn veraldlegir, þessir allir fóru bæði undan og eptir vagni þeim, sem líkið var flutt á; á eptir þeim komu bæjarbúar með konur og börn, og hörmuðu þeir allir þennan mikla fræðara sinn, og það svo mjög, að trauðlega munu íbúar nokkurs bæj-

að hafa harmað eins alvarlega og almennt nokkurn mann látinn, eins og *Lúter* var harmaður í *Wittenberg;* því þar sást ekkert mannsbarn ógrátandi, því þurfti ekki heldur mikinn mælskumann til að lýsa verðleikum *Lúters,* útlit bæjarbúa sýndi bezt, hvílíkur sá hafði verið, sem þeir urðu nú að sjá á bak. Þegar búið var að bera líkið í hirðkirkjuna, voru þó haldnar 2 ræður, hjelt doktor *Bugenhagen,* vinur *Lúters,* þá fyrri, en *Melanchthon* þá síðari, og var það hjartnæm huggunaræða; síðan var líkið jarðlagt fyrir framan altarið að tilvísun kjörherrans, og sjer þar enn málmtöflu þá hina fögru, er liggur yfir gröf þessa ágætismanns, sem svo miklu hefur til leiðar snúið. *Melanchthon* lifði 14 árum lengur en *Lúter,* og var hann grafinn við hlið vinar síns.

*Friðrik Vilhjálmur* hinn 3., Prússakonungur, ljet setja *Lúter* fagurt minningarmark á torginu í *Wittenberg,* 31. d. októberm. 1821. Stendur þar líkneskja *Lúters,* af málmi gjörð, á mikilli og sljettfægðri forngrýtishellu, og er líkneskjan meiri vexti, en maður væri. Í vinstri hendinni heldur hún á biflíunni, og bendir á hana með hinni hægri. Á fjórum hornum hellunnar standa járnsúlur fjórar, á þeim súlum hvílir járnhimin, sem er upp yfir líkneskjunni, og standa þar af upp margir oddar og háir.

Alls átti *Lúter* 6 börn, og lifðu 4 þeirra föður sinn, synir hans 3: *Jóhann, Marteinn* og *Páll,* og ein dóttir, sem *Margrjet* hjet. Þeir bræður

mönnuðust allir vel, þó þeir yrðu ekki jafningjar föður síns. Nú eru hjer um bil 100 ár síðan, að hinn síðasti af niðjum *Lúters* í karlegginn dó í *Dresden*. Frú *Katrín* lifði og mann sinn, og varð hún tvisvar að flýja *Wittenberg* fyrir stríði og drepsótt, og naut hún þá lítið örlætis og góðvilja manns síns hjá sumum. Þó veitti kjörherrann á Saxlandi henni styrk, og *Kristján* 3. Danakonungur sömuleiðis. Hún dó í *Torgau* 1552.

## 10. Frá háttsemi Lúters.

Af æfisögu *Lúters* má sjá, hvílík hetja hann var í trúarefnum, og oss liggur við að segja, að hann hafi verið víkingur í þeim. En nú viljum vjer taka hjer stuttlega fram fáein atvik úr lífi hans og ýmsa heimilishætti, sem lýsa honum og lunderni hans nokkuð nákvæmar. Þess er áður getið, hvernig vöxtur hans var og yfirlitur, og því einu má við það bæta, að þó hann væri grannvaxinn á fyrri árum sínum, varð hann þrekinn og feitlaginn við ellina. Eins og hann var hreinn á svipinn, eins var sál hans hrein og skír, og svo kemur hann fram hvervetna í ritum sínum og brjefum; svo kemur hann fram í sambúðinni við konu sína og í umgengni við börn sín og í uppeldi þeirra; svo kemur hann fram, þegar hann veitir þurfamönnum velgjörðir, eða situr yfir borðum með vinum sínum, eða hann skoðar náttúruna.

*a) Lúter og kona hans.* Eptir að *Lúter*

byrjaði stríðið mikla við páfatrúna, og hann fór að semja ritgjörðir, sem bárust út um Þýzkaland allt og miklu víðar, gat hann loksins komið því til leiðar, að munkunum, sem ekki höfðu mátt líta út úr klausturkompum sínum, nema þegar þeir voru sendir með beiningapokana, fór að leiðast munklífið, og þótti sæmra og frjálslegra að leita sjer atvinnu á annan hátt. Þannig smá-eyddust munkaklaustrin; en þá voru nunnuklaustrin eptir, sem kenning *Lúters* átti miklu örðugra með að opna; því nunnurnar voru ekki eins áræðnar og munkarnir, og náungum sínum svo háðar, sem höfðu sent þær þangað, að þær þorðu ekki að yfirgefa klaustrin að foreldrum sínum fornspurðum, þó þær fegnar vildu. Í klaustri nokkru, er *Nimptschen* hjet, sátu meðal annars 9 meyjar, sem iðraði mjög heits þess, sem þær höfðu unnið nauðugar, að sitja þar alla æfi; þær lögðu mikið að náungum sínum, að þeir lofuðu þeim að hverfa heim aptur, en þess var enginn kostur. Sneru þær sjer þá til *Lúters,* og beiddu hann að losa sig við heit sín, og hjálpaði hann þeim líka til að flýja úr klaustrinu, og útvegaði þeim 2 valinkunna menn frá *Torgau* til fylgdar. En þar eð ættingjar meyjanna vildu ekki taka við þeim aptur, þó *Lúter* legði orð að því við þá, kom hann þeim sjálfur fyrir fyrst um sinn hjá heiðvirðum borgurum í *Wittenberg,* en hugsaði sjer þó seinna meir að gipta þær góðum mönnum, ef þess yrði kostur.

Ein af meyjum þessum var *Katrín* frá *Bóra;* hún var fríð ásýndum, vel uppalin og drenglynd, undi hún svo vel hag sínum, þó hann væri ekki betri, að *Lúter* hjelt, að hún væri drambsöm, en hitt var þó raunar, að hún var þreklynd og mannkostakvendi hið mesta, og það sá *Lúter* ekki fyr en seinna. Hann ætlaði sjer þá að gipta hana doktor *Glatz,* og ljet háskólakennara þann, sem hjet *Nikulás* frá *Amsdorf,* bera það upp við hana. En hún sagði honum hreinskilnislega og afdráttarlaust, að sjer fjelli ekki maðurinn í geð, en aptur mundi hún ekki synja *Nikulási* eða *Lúter* gjaforðs síns, ef annar hvor þeirra leitaði þess. *Lúter* var reyndar ekki mjög hugleikið að kvongast; en bæði vegna þess, að hann vildi gjöra foreldrum sínum það til geðs, sem enn voru á lífi, og af því að hann hafði hvatt menn mjög til þess í kenningum sínum, þá tók hann sig til 13. dag júním. 1525 með 3 vinum sínum, *Jóhanni Bugenhagen,* doktor *Apel* og *Lúkas Kranach,* nafnfrægum málara, svo engir aðrir vissu, nje væntu, hvað í efnum var, og bað *Katrínar* sjer til handa, í viðurvist þessara þriggja votta. En þó þetta kæmi mjög flatt upp á hana, svaraði hún vel máli frelsara síns og velgjörara. *Katrín* var þá í húsi meistara *Reichenbachs.* Skömmu síðar kom þar doktor *Jónas* og kona *Kranachs,* og vígði svo doktor *Bugenhagen,* sem þá var hirðprestur í *Wittenberg*, þau saman, *Lúter* og *Katrínu,* sama kvöldið; var *Lúter* þá á öðru

árinu um fertugt, en *Katrín* á sjöunda um tvítugt. 14 dögum síðar hafði hann konu sína heim með sjer, og hjelt þá dýrðlega brúðkaupsveizlu, og voru foreldrar hans í boðinu. Þann dag gaf háskólinn honum gylltan silfurbikar mikinn með drifnu loki yfir.

Þó að *Lúter* hefði þannig kjörið sjer konu fremur af trausti en reynslu, sjest það þó hvorki af brjefum hans nje af frásögnum þeirra, sem voru heimagangar í húsi þeirra, að *Lúter* hafi nokkurn tíma iðrað, þó hann hefði ekki lengi hugsað sig um konukostinn; því upp frá þessu varð honum heimalífið þægilegt og inndælt. Svo segir hann og sjálfur á einum stað: „Svo miklir og ágætir eru þeir kostir, sem guð gefur góðum konum, að ekkert ber á smábrestum þeirra. Ekkert fjelag er því ástúðlegra, ekkert vinsamlegra og ekkert inndælla, en góðrar konu, þegar hjón unna hvort öðru í eindrægni og friðsemi“. Árið eptir að þau áttust, komst *Lúter* þannig að orði í brjefi einu: „Konan mín er stimamýkri, dyggðugri og eptirlátari við mig í öllu, en jeg gat vænzt, og það svo, að jeg vildi ekki skipta fátækt minni fyrir öll auðæfi *Krösusar*[1]. Jeg met konuna mína meir en konungdóm á Frakklandi og „furstadóm“ í *Venedig* (Feneyjum)“. Og í öðru sinni sagði hann: „Það er hægt að fá sjer konu, en hitt er enginn hægðarleikur að fá sjer þá konu, sem maður getur ávallt elskað jafn-

[1]) Sbr. mannkynssögu P. Melsteds á 35. bls.

heitt, það er guði að þakka; þakki sá guði, sem það hlutskipti hlotnast. Því er ráðlegast, þegar maður ætlar að leita sjer kvonfangs, að biðja guð á þennan hátt eða með líkum orðum: „Drottinn minn, góður guð, ef það er vilji þinn, að jeg lifi einlífi, þá hjálpaðu mjer til þess; en ef þjer þókknast annað, þá gefðu mjer þá konu, sem jeg get elskað, á meðan jeg lifi, og hún aptur mig“.

Þó telur *Lúter* konuna sína meðal þeirra, sem hann yrði að vera þolinmóður við, þar sem hann segir: „Jeg verð að vera þolinmóður við páfann; jeg verð að vera þolinmóður við okurkarlana; jeg verð að vera þolinmóður við vinnuhjúin mín; jeg verð að vera þolinmóður við hana *Katrínu* frá *Bóra*, og þar að auki er þolinmæði mín svo mikil, að líf mitt allt er eintóm þolinmæði“.

Þó þau *Lúter* og kona hans væru ekki auðug, bætti hún það upp með því að halda vel á litlum efnum þeirra, og þó snæðingur þeirra væri íburðarlaus og óbrotinn, neyttu þau hans með gleðisvip og ánægju. Um það efni hafa vinir *Lúters* sagt sögu þessa: „Einu sinni settist *Lúter* til borðs, og lá þá mikið vel á frúnni, af því hún hafði látið veiða geddur, silung og karfa o. s. frv. í fiskidíki dálitlu, sem var í garðinum þeirra. Síðan hafði hún steikt nokkra af fiskum þessum og borið þá á borð fyrir mann sinn, heldur en ekki hróðug og ánægð, settist svo sjálf við borðið, og snæddi með góðri matarlyst, og fögnuði

og þakklæti við gjafarann allra góðra hluta. Þá segir *Lúter:* „Katrín, þú ert glaðari af þessum fáu fiskum, en margur tignarmaður, sem á mörg stóreflis fiskidíki, og getur látið veiða í þeim, þegar honum lízt, svo hundruðum skiptir. Æ, ágirndin og metnaðargirnd vor mannanna gjörir það að verkum, að vjer getum ekki notað oss guðs gáfur með þeirri ánægju, sem vera á; margur auðmaðurinn lifir í munaðarlífi, og hefur alls nægtir, en getur þó ekki notið þeirra með ánægju, eða svo, að hann sje nokkru nær en áður. Hinn óguðlegi mun ekki sjá guðs dýrð, og hann kann ekki að meta guðs skapaðar skepnur; af því guð gefur oss svo mikið af þeim og svo opt, finnst manni lítið til þeirra koma, ef þær væru sjaldgæfari, mundu menn meta þær meir".

Af þessu virðist það auðsært, hversu sæl og ástsamleg sambúð þeirra hjóna hefur verið. En í einu var *Lúter* konu sinni ekki alls kostar að skapi, og brennur það opt við hjá lærðum mönnum: hann neytti stundum hvorki svefns nje matar eða drykkjar fyrir bókiðnum, og gleymdi bæði konu og börnum og öllu í kringum sig. Einu sinni hvarf hann, svo að enginn vissi, hvað af honum var orðið. Frúin leitaði hans alstaðar, grátandi, hún barði að öllum dyrum í húsinu, og kallaði á hann með nafni; en enginn gegndi, og engan vott sá hún til hans nokkurstaðar. Loksins kom henni til hugar að ljúka upp lestrarstofunni hans með öðrum lykli; sat hann þar þá við

borðið, og var að hugsa um þýðinguna á 22. sálmi Davíðs. Hún ætlaði að fara að átelja hann fyrir hræðslu þá, sem hann hefði ollað henni að þarflausu, en hann varð angurvær við það, að hún glepti fyrir sjer, benti á ritninguna, og sagði: „Heldurðu, að jeg aðhafist hjerna nokkuð íllt? Veiztu ekki, að jeg verð að vinna, á meðan dagurinn er? Því nóttin kemur, og þá getur enginn aðhafzt".

*b) Lúter og börn hans.* Eins og *Lúter* var góður og ástsamlegur konu sinni, eins var hann viðkvæmur og ástríkur faðir barna sinna: „Jeg er ríkari", sagði hann einu sinni, „en allir guðfræðingar páfatrúaðir til samans, af því jeg er ánægður með lítið. Jeg á konu og 6 börn, sem guð hefur gefið mjer, enda eru þeir ekki verðir slíkra gersema". Þegar ógleði sló að *Lúter* yfir háttalagi heimsins, eða áhyggjur fyrir trúnni lögðust svo þungt á hann, að honum lá við að hugfallast, var það opt eina úrræðið hans að skemmta sjer með börnum sínum, þar gleymdi hann öllu andstreymi. „Hvílík guðs blessun er það ekki, að eiga elskuleg börn", sagði hann opt, um leið og hann vafði yngsta barn sitt upp að brjósti sínu. „Börnin eru hinir sætustu ávextir hjónabandsins, þau eru það, sem halda því saman, og glæða ástina milli manns og konu". „Guð minn góður", sagði hann einhverju sinni, „hversu þungt mun *Abraham* hafa verið í skapi, þegar hann átti að fórna *Ísak*, einkasyni sínum. Hversu

mæðusöm hefur ekki ferðin til fjallsins *Moria* verið honum. Hann hefur sjálfsagt ekki sagt henni *Söru* frá því, sem hann ætlaði að hafast þar að. Jeg segi fyrir mig, jeg hefði fyrst farið í kappræðu við guð, ef hann hefði lagt á mig slíkan kross". Þá gegndi frúin til, og sagði: „Jeg get aldrei trúað því, að guð hafi heimtað af mönnunum að drepa eigin börn sín". *Lúter* svaraði henni: „Katrín mín góð, geturðu þá ekki heldur trúað því, að guð hafi látið son sinn eingetinn, Jesús Krist, deyja fyrir oss? og þó var honum ekkert kærara hvorki á himni nje jörðu, en þessi elskulegi sonur hans. Þó ljet hann krossfesta hann vor vegna, og líða hinn fyrirlitlegasta dauðdaga". Margar slíkar kenningar hafði *Lúter* fyrir börnum sínum bæði yfir borðum, og kvöld og morgna, þegar hann gjörði bæn sína með þeim.

Þó *Lúter* væri einhver viðkvæmasti faðir barna sinna, gætti hann þess þó ávallt að aga þau, þegar á því þurfti að halda; því að hann var fjarlægur öllu kveifaruppeldi og agaleysi; ekki ljet hann heldur afbatanir konu sinnar aptra sjer að hirta börn sín, þegar honum þótti þau hafa til þess unnið. Þegar *Jóhann* sonur hans, 12 ára gamall, hafði gjört eitthvað, sem hann átti ekki að gjöra, ljet *Lúter* hann ekki koma fyrir augu sjer í 3 daga, og fyrirgaf honum ekki, fyr en drengurinn skrifaði honum til, játaði ávirðing sína, og bað hann fyrirgefningar. Í þetta sinn hafði bæði frúin, doktor Jónas og fleiri

beðið fyrir drenginn, en það tjáði ekki, því *Lúter* sagði: „Jeg vil heldur eiga engan son, en illa uppalinn. Þegar foreldrarnir ala vel upp börn sín, eru þau á leiðinni til himnaríkis; og því er enginn hlutur, sem vissar steypir manni til helvítis, en ef maður hirðir ekki um uppeldi barna sinna. Ef maður er of eptirlátur við börnin, þá spillast þau. Því vil jeg ekki fyrirgefa *Jóhanni* syni mínum þessa ávirðingu hegningarlaust, og ekki leika mjer við hann, eins við hana dóttur mína“.

En *Lúter* var þó ekki eins og sumir bráðlyndu feðurnir og uppstökku, sem halda, að þeir hafi gjört uppeldisskyldunni fullnustu, þegar þeir hafa hýtt barnið, ef til vill, í bræði sinni. Hann þekkti svo vel á mannlegt eðli, að hann vissi, að ef hörðu er beitt við blíðlynd börn og geðlempin, þá verða þau sljó og þrællynd, en ertin börn verða af því þrjózk og þrálynd. Hann vissi af því, að maður verður að beita svo hörkunni við börnin, að þau sjái, að hirtingin sje sprottin af ást, en ekki af reiði. Einu sinni hafði *Hans (Jóhanni)* syni hans orðið eitthvað á í öðru sinni, þá sagði *Lúter:* „Jeg vildi ekki hirta hann mikið, því þá verður hann sljór, og hatar mig. Það er hörmung til þess að vita, þegar börnum verður í kala við foreldra sína, eða lærisveinum við kennara sína fyrir sakir hirtingarinnar. Menn mega ekki berja börnin um of: því einu sinni barði hann faðir minn mig

svo mikið, að jeg forðaðist hann á eptir, og hataðist við hann. Móðir mín barði mig líka einu sinni svo mikið fyrir eina skitna hnot, að blóðið lagaði um mig allan, og af því hún var svona harðgeðja, fór jeg seinna í klaustur og varð munkur. En hún vildi mjer samt vel".

Í öðru sinni kenndi *Lúter* þessa hyggilegu og skynsamlegu aðferð við barnauppeldi, sem nú skal greina: „Menn verða að kostgæfa að venja börnin svo, að þau gjöri það, sem gott er, með löngun og alúð; því það, sem þau gjöra nauðug og af þrælsótta fyrir hirtingunni eða sóplinum, getur aldrei orðið að liði, og hvað mikið sem börnin eru hirt, hlýða þau þó ekki lengur, en á meðan sóplinn er á lopti. En þegar börnin eru áminnt alvarlega og hirt með gætni, innrætist þeim hið góða, svo að þau óttast guð, en ekki hirtinguna". 2 Brjef, sem *Lúter* skrifaði *Jóhanni* syni sínum, á meðan hann var ungur, sýna, hversu ágætlega *Lúter* hefur tekizt að komast inn í anda barnsins,svo að hann gat haft því meiri áhrif á sál hins unga sonar síns, sem þá var að eins fjögra ára. Fyrra brjefið er svona:

„Náð og friður drottins vors sje með þjer,
ástkæri litli sonur minn".

Mikil ánægja er mjer það, að þú ert iðinn að lesa og biðja. Haltu því á fram, sonur minn góður. Þegar jeg kem heim aptur af markaðinum, ætla jeg að færa þjer fallega gjöf. Jeg hef sjeð fagran og inndælan aldingarð, í þeim

garði eru mörg börn í gulllögðum klæðum; þau tína þar fögur epli og aldini undir trjánum, einnig alls konar ber og blóm; þar syngja þau og leika sjer, þau eiga þar og fagra hesta og smávaxna með gullnum beizlum og silfursöðlum á. Jeg spurði manninn að, sem garðinn á, hvaða börn þetta væru. Sagði hann mjer þá, að það væru þau börn, sem væru viljug að biðja og læra; „og eru þetta allt góð börn“. Þá sagði jeg: „Góðurinn minn, jeg á son, sem heitir *Hans* (Jóhann), ætli þú vildir ekki lofa honum að vera í aldingarðinum þínum, og borða fallegu eplin og berin“? Maðurinn sagði: „Ef hann sonur þinn er bænrækinn, viljugur að læra og góður og siðsamur piltur, þá er honum velkomið að vera í garðinum mínum; hann *Lippus* og *Jost*[1] mega líka koma með honum, og svo skulu öll börnin fá hljóðpípur og gígjur og bumbur og alls konar strengleiki, þau skulu þá fá að danza og skjóta af dálitlum handbogum“. Síðan sýndi hann mjer dálitla flöt grasivaxna í garðinum; var það hinn fegursti leikvöllur, umhverfis flötina hjengu hljóðpípur, bumbur og handbogar á trjánum. Þetta var snemma morguns, börnin voru ekki komin í garðinn, þau voru að borða, og af því jeg mátti ekki bíða, gat jeg ekki fengið að sjá leiki þeirra. Jeg sagði þá við manninn: „Heillamaður, jeg ætla

[1]) **Lippus** var sonur **Melanchthons**, en **Jost** var sonur **Jónasar** doktors; þeir voru báðir leikbræður **Jóhanns** litla **Lúterssonar**.

nú að fara og skrifa drengnum mínum, og segja honum að vera bænrækinn, viljugur að læra og vera gott barn. En hann á dálitla systur, hún heitir *Lena;* ætli hún mætti ekki líka koma hingað með honum"? „Það má hún gjarnan", sagði maðurinn; „en farðu nú og skrifaðu þeim þetta". Þreyztu því ekki, sonur minn, að læra og biðja, og segðu honum *Lippus* og honum *Jost,* að þeir verði líka að læra og biðja; því þá megið þið öll saman koma í aldingarðinn fagra. Berðu henni systur þinni kveðju mína, og kysstu hana fyrir mig.

1530.
Jeg er ástkær faðir þinn
*Marteinn Lúter*".

Hitt brjefið skrifaði *Lúter* að minsta kosti 7 árum síðar þessum sama syni sínum, enda ber þar minna á hinum fjörugu ímyndunum, sem börnum er svo títt að gjöra sjer, á meðan þau eru lítil; en eins er það brjef einfallt og alúðlegt eins og hið fyrra, og því er það hjer sett.

„Allt til þessa hef jeg haft mestu ánægju af iðni þinni, sonur góður, og brjefum þínum til mín. Ef þú ferð þessu fram, sem þú hefur farið hingaðtil, þá gleður þú ekki einungis mig, sem elska þig svo einlæglega, heldur býrðu með því vel í haginn fyrir þig síðar meir. Kostaðu kapps um að halda því á fram, sem þú hefur byrjað á; því sá guð, sem hefur boðið börnunum að hlýðnast foreldrum sínum, hefur einnig heitið hlýðn-

um börnum blessun sinni. Hafðu því vakandi auga á þessari blessun drottins, og láttu ekki dæmi vondra manna villa þjer sjónir og tæla þig. Því hinn sami guð hefur einnig ógnað óhlýðnum sonum með bölvun sinni. Óttastu þann guð, sem blessar og bölvar, en sem reyndar frestar heitum sínum og ógnunum hinum vondu til glötunar, en er þó fljótur til að láta hvorttveggja rætast góðum mönnum til heilla og hamingju. Óttastu gu*, og hlýddu ráðum og áminningum foreldra þinna, sem unna þjer alls hins bezta, en forðastu svívirðilegan munnsöfnuð og samræður ósæmilegar".

*c) Lúter* og *þurfamenn*. Þó *Lúter* væri góður maður konu sinni og ástkær faðir barna sinna, var hann þó enginn búhöldur. Hann var einhver ósjerplægnasti maður, eins og flestir miklir menn eru; því hann var einn þeirra fáu, sem aldrei líta á eigin hag sinn. Hefði hann verið svo lyntur, var honum gefið að verða einhver mesti auðmaður á Þýzkalandi. Hann vildi ekkert kaup þiggja fyrir handrit sín hjá bóksölunum, sem fengu þau hjá honum; hann vildi gjöra allt launalaust, eða fyrir guðs sakir. *Jóhann* kjörherra hinn *vísi* bauð honum að launum fyrir biflíuþýðinguna einkar arðsama silfurnámu hjá *Schneeberg* (Sneberg). En *Lúter* neitaði því, og sagði: Ef jeg hefði ekki lagt það ómak á mig með ljúfu geði fyrir þess sakir, sem fyrir mig dó, þá gæti ekki heimurinn launað mjer það, þó jeg fengi allt það

gull, sem í honum er. Jeg vil ekki, að heimurinn launi mjer fyrirhöfn mína, hann er of snauður til þess“. Fáum mun gefin slík auðmýkt og veglyndi.

En því minna fje sem *Lúter* átti, því örari var hann á því við nauðstadda; því hann sást ekki fyrir með velgjörðir; og vera má, að nokkuð hafi verið hæft í því, að hann hafi miður sjeð fyrir sjer og sínum, en vera bar. Einn vinur hans sagði því við hann einhverju sinni, að hann yrði að safna dálitlum fjárforða að minsta kosti handa konu sinni og börnum; en *Lúter* svaraði honum á þessa leið: „Það er fjarri mjer; því þá treysta þau á gullið, en ekki á guð og handafla sinn“.

Þurfamönnum gaf hann, ef hann átti einn skilding til, og jafnvel þó hann ætti engan skilding til, sem nú skal getið verða. Einu sinni kom maður nokkur inn í lestrarstofu hans, og bað hann um ölmusu; því hann var fjárþurfi. En svo stóð þá á, sem optar, að *Lúter* var líka í fjárþroti; en allt um það vildi hann hjálpa manninum, og þegar hann hafði hugsað sig dálítið um, greip hann til peninga þeirra, sem skírnarvotturinn að yngsta barninu hans hafði gefið því í skírnargjöf, og gaf manninum þá. Ekki gat hann um þetta við konu sína, en hún sá skjótt, að pyngjan sín var orðin mjóslegin, og þótti miður, að hann hefði verið svona gálauslega góðfús. En *Lúter* svaraði henni á þessa leið: „Fástu ekki um

að tarna, góðin mín; guð er nógu ríkur, hann mun endurgjalda".

Í öðru sinni kom fátækur stúdent til *Lúters*, sem hafði nýlokið af námi sínu á háskólanum; hann ætlaði að fara frá *Wittenberg*, og bað því *Lúter* um skotsilfur til ferðarinnar. *Lúter* var þá og í peningahraki, og bað konu sína að hjálpa manninum; en hún gat það ekki heldur. Þessu undi *Lúter* allilla. En allt í einu kom hann auga á undurfallegan silfurbikar logagylltan, sem kjörherrann hafði gefið honum fyrir skömmu; hann gjörði sjer þá lítið fyrir, og gaf manninum bikarinn. Stúdentinn rak í rogastanz, og vildi ekki við honum taka, og frúnni brá heldur en ekki í brún, þegar hún sá þessar tiltekjur manns síns. Þegar *Lúter* sá, hvað þeim var báðum, varð honum fljótt til ráðs: hann tók bikarinn, böglaði honum saman í milli handa sinna, og sagði: „Jeg þarf ekki á silfurbikar að halda; farðu nú með hann til gullsmiðsins, og eigðu það, sem þú færð fyrir hann".

Af því *Lúter* var svona brjóstgóður og ör, mundi búskapurinn hafa farið út um þúfur fyrir honum, hefði ekki konan hans haft eins stöðuga gát á öllum hlutum innanhúss, og haldið eins spart á, eins og hún gjörði. Þegar *Lúter* dó, ljet hann þó erfingjum sínum eptir sig nokkur hús, og einn búgarð lítinn.

*d) Lúter yfir borðum.* *Lúter* var, eins og áður er ávikið, hófsmaður mesti í mat og drykk.

Stundum neytti hann einungis brauðs og salts við, og stundum einskis allan daginn, svo að hann tefðist ekki frá bókiðnum sínum. Hann var maður ómatvandur, en mata bezt þótti honum þó síld og baunir, en af drykkjum öl, og sáu vinir hans fyrir því, að hann skorti það ekki. Hann hafði viðbjóð á stórveizlum og óhóflegum mannboðum, og vildi helzt hýrast heima. Honum fjellu miklu ver tíð heimboð, en þó hann sæti fastur við iðnir sínar daginn út og daginn inn. Einu sinni fór hann þessum orðum um heimboðin við vin sinn einn: „Jeg eyði of miklum tíma til þeirra. Jeg veit ekki, hver þremillinn til þess kemur, að jeg get ekki neitað þeim, og þó eru þau mjer óholl". Heima hjá sjer hresstist hann bezt, og jókst dugur til nýrra starfa, þegar hann var í flokki barna sinna, með lærisveinum sínum og vinum, sem ávallt borðuðu nokkrir með honum miðdegisverð, og bar þá margt skemmtilegt og fróðlegt á góma; því *Lúter* var gleðimaður og fyndinn, þegar hann gjörði að gamni sínu. Þannig hefur einn miðdegisgestur *Lúters* lýst háttsemi hans við borðhald, sem nú skal segja.

„Þó að doktor *Lúter* væri opt í þungum hug, þegar hann gekk til borða, og honum færi stundum ekki orð frá munni, á meðan hann mataðist, varð hann þó, þegar svo bar undir, mjög kátur, og þá vorum við vanir að kalla borðræður hans „kryddmetið"; því vjer vildum ekki sjá neins konar krydd eða kostulega rjetti hjá þeim.

Þegar hann vildi koma oss til að tala, var hann vanur að spyrja þannig: „hvað er að frjetta“! Þessa spurningu ljetum við líða hjá. En ef hann ítrekaði sömu spurninguna aptur, þá tóku hinir eldri til máls, sem við borðið sátu. Opt voru þá bornar upp fyrir *Lúter* spurningar úr ritningunni, sem hann leysti úr stutt og snillilega. Tíðum sátu háskólakennararnir að máltíð hjá honum og menn úr öðrum löndum; var þá hið mesta gaman að ræðum hans og frásögum.

Þessum borðræðum *Lúters* og snilliyrðum, sem honum urðu að orði við ýms tækifæri, söfnuðu lærisveinar hans grandgæfilega saman í eina bók. Á henni eru útskýringar á aðalatriðum kristinnar trúar, mörg heilræði, margar fagrar og hugvitssamar málsgreinir, mörg sagan skemmtileg, álit hans um ýmsa hluti, sem eiga prýðilega við, og margar skarpvitrar getgátur. Hjer skal að eins fárra getið.

Einu sinn kom kaupmaður frá *Hamborg* til *Wittenberg*, og með honum sonur hans hálfstálpaður, sem kaupmaðurinn ætlaði að setja til mennta. En þar eð hann hafði ekki fast ráðið, hvað hann ætti að láta son sinn nema, þá fór hann með hann til *Lúters*, og bað hann að segja sjer, til hvers drengurinn mundi bezt fallinn. *Lúter* bauð þeim að borða hjá sjer miðdegisverð, því hann var gestrisinn. Doktorsfrúin bar á borð fyrir þá gæsasteik, en gekk fram aptur, til að sækja eitthvað fleira. En á meðan þeir voru sem

óðast að tala saman, *Lúter* og kaupmaðurinn, var drengurinn ekki iðjulaus: hann fló pöruna alla af einni gæsinni, og borðaði hana með beztu matarlyst. Þegar *Lúter* tók eptir þessu, sagði hann hlæjandi við kaupmanninn: „En hvað við erum lengur að velkja því fyrir okkur, hvað sonur yðar eigi að leggja fyrir sig? Það er ekki áhorfsmál, hann á að verða sútari, sjáið þjer ekki, hversu ágætlega honum er sú list lagin? Skoðið þjer að eins, hversu meistaralega honum hefur tekizt fyrsta tilraunin“.

Einu sinni bað prestur nokkur *Lúter* um að segja sjer, hvernig hann ætti að prjedika fyrir höfðingjana. Þá sagði *Lúter:* „Allar ræður yðar eiga að vera svo einfaldar, sem unnt er, og þjer megið ekkert tillit hafa til höfðingjanna, heldur einungis til hinna einföldu, auðvirðilegu og ómenntuðu, hvað sem höfðingjunum líður. Ef jeg ætti að hafa tillit til hans *Philippusar* (þ. e. *Melanchthons)* og doktoranna, þegar jeg gjöri ræður, þá held jeg þær yrðu að litlu gagni fyrir hina; en ræðurnar mínar eru svo einfaldar og óbrotnar, að hvert barnið getur haft gagn af þeim, og þó geðjast öllum að þeim. Þó jeg kunni grísku, hebresku og latínu, þá geymi jeg mjer þau málin, þangað til fundum okkar lærðu mannanna ber saman; enda látum vjer þá svo vaða með súðum, að guði þykir nóg um“.

Mikils háttar maður nokkur, sem hafði verið um hríð sendiherra hjá Tyrkjum, sagði frá því,

að einu sinni hefði keisarinn spurt, hvaða maður *Lúter* væri, og hversu gamall. Sendiherrann sagðist hafa sagt, að *Lúter* mundi hafa hjer um bil 8 um fertugt. Þá hafði Tyrkjakeisari sagt: „Jeg vildi, að hann væri yngri; því þeim manni skyldi jeg mildur vera“. Þegar *Lúter* heyrði þetta, krossaði hann sig, og sagði: „Guð varðveiti mig frá þeim milda höfðingja“.

*e) Lúter skoðar náttúruna.* Á sumrum flutti *Lúter* sig opt úr borginni með konu sinni, börnum og vinum að brunni einum, sem síðan er kallaður *Lúters*-brunnur. Brunnur þessi er skammt frá *Wittenberg*, er það fögur uppspretta í grænu graslendi; *Lúter* hafði sjálfur fundið hann fyrstur manna, og eptir að hann kvongaðist, hafði hann látið hlaða steingirðingu umhverfis brunninn, og byggja skemmtihús þar upp yfir. Á þessum stað, sem var í svona fögru landslagi, og ekkert glapti fyrir, sökkti *Lúter* sjer ýmist ofan í bókiðnir sínar, eða hann skoðaði náttúruna. Þar lagði *Lúter* út 4. kapítulann í Jóhannesar guðspjalli, þar sem Kristur á tal við samversku konuna við Jakobsbrunn. Aptur þegar hann skoðaði náttúruna, tók hann sjer annaðhvort rós, og handljek hana og dáðist að skapnaði hennar, eða hann nam staðar höggdofa við alblómgað-aldintrje, eða hann horfði á fuglana, þar sem þeir voru að syngja eða hreiðra sig, eða hann virti fyrir sjer hina furðulegu rás stjarn-

anna. Og af öllum þessum dásemdum náttúrunnar dró hann fögur dæmi til eflingar trú sinni.

Einu sinni sem optar ók hann til *Leipzig*, og þegar hann leit yfir akrana, sem á leið hans urðu og stóðu í öllum blóma sínum og fegurð, þá þakkaði hann guði, og sagði: „Æ, góði guð, þú gefur oss frjóvsamar árstíðir, ekki fyrir tilverknað vorn, heldur fyrir þíns nafns sakir. Gefðu það, guð minn góður, að vjer bætum ráð vort, og vöxum og döfnum í þínu orði. Því það er dásemdarverk, að þú lætur grös og jurtir gróa og þróast á jörðunni, og jafnvel vaxa upp úr sandinum, sem ekki er annað en smámolaðir tinnusteinar. Ástkæri faðir, gefðu oss, börnum þínum, vort daglegt brauð".

*Lúter* var einhverju sinni staddur úti í garðinum sínum um kvöldtíma, þá komu þangað smáfuglar tveir fljúgandi, og ætluðu að hreiðra sig þar, en fældust manninn, og flugu hvað eptir annað burtu. Þá sagði *Lúter:* „Veslingar, óttizt mig ekki, jeg ann ykkur alls góðs, ef þið að eins tryðuð mjer. Svona er því líka varið með oss, mennina, vjer treystum ekki og trúum ekki guði, drottni vorum, fyrir oss, en þó veitir hann oss og ann allra gæða. Hann mun engan veginn svipta oss lífinu, hann sem hefur gefið oss son sinn, til þess að vjer skyldum lifa".

Slíkar kenningar voru *Lúter* alltíðar, þegar hann virti fyrir sjer náttúruna.

Það er eina huggunin þegar merkismennirnir deyja, sem hafa varið öllu lífi sínu mannkyninu til heilla og blessunar, að afreksverk þeirra deyja ekki út með þeim. Þar sem þeir hafa endað, hafa aðrir tekið við eptir þeirra dag. Og þannig var það með *Lúter;* sæði það, sem hann sáði, hefur síðan borið hina fegurstu ávexti hjá öllum kynslóðum, sem nokkuð hafa að því hlynnt. Siðabótin hætti ekki, þó *Lúter* dæi; því síðan hefur hún mikið aukizt og eflzt, og eflist enn daglega. En ávextir siðabótarinnar eru hugsunarfrelsi, gætin rannsókn sannleikans, frelsi samvizkunnar og blíðlyndi, sem kristnum sómir; og þó má vera, að hún beri enn fegri ávexti hjá hinum komandi kynslóðum



| | |
|---|---|
| Ný Fjelagsrit, 1. 2. 3. ár | hvert 56 sk. |
| — 5. ár | 64 sk. |
| — 6. 7. 8. ár | hvert 80 sk. |
| — 9. 10. 11. ár | — 64 sk. |

Fjölnir 2 — 7. ár og 9. og kostar hvert ár þriðjungi minna, en á því stendur.

| | |
|---|---|
| Reikningsbók O. Stephensens í gylltu velsku bandi | 72 sk. |
| Kvöldvaka í sveit (samtal) | 6 sk. |
| Nýársgjöf, J. Haldórssonar (með forskrift) | 48 sk. |
| Fíngrarím í velsku bandi | 48. sk. |
| Gröndalskvæði í kápu | 32 sk. |
| Droplaugarsona saga, í kápu | 16 sk. |
| Bjarnarsaga Hýtdælakappa, í kápu | 32 sk. |
| Vopnfirðinga saga með þáttum, í kápu | 32 sk. |
| Gisla saga Súrssonar, í kápu | 64 sk. |
| þórðar saga hreðu, í kápu | 32 sk. |
| Íslenzk Æfintýri, í kápu | 32 sk. |
| þorgeirssálmar, í spjöldum 16 sk., í velsku bandi | 20 sk. |
| Flokkabók, prentuð í Kaupmannahöfn, í materíu | 48 sk. |
| Sálmabók, í gylltu alskinni 9 mörk, gyllt á kjöl og hliðum | 2 rbd. |
| Lærdómsbók í velsku bandi | 32 sk. |
| Passíusálmar í alskinni 56 sk., gylltir á kjöl og hliðum | 1 rbd. |
| Vasakver (skrifbók) í gylltu valsku bandi | 32 sk. |
| — — stærri í lerepti | 48 sk. |

Skrifbækur stórar og smáar í átta, fjögra og tveggja blaða broti, og er verð á þeim eptir stærð.

Hjer að auki hef jeg ýmsar danskar bækur, svo sem: prjedikunar, barna og mynda, orða og sögubækur, og býðst til að panta danskar bækur frá Kaupmannahöfn, en við móttökuna hjer verða bækurnar borgast.

---

